# LJÓÐMÆLI

EFTIR

M. MARKÚSSON

*Með mynd höfundarins.*



WINNIPEG.
PRENTSMIÐJA LÖGBERGS
1907.

## MINNI ÍSLANDS.

2. Ágúst 1902.

Bláum ránarbeði vafin,
blessuð, kæra fósturjörð,
björt á svipinn, hátt upp hafin
hýran yfir vog og fjörð,
þar er vagga vor og saga,
viðkvæm endurminning hrein,
þar sem ljósið liðnra daga
ljóma slær á feðra bein.

Hljóma skært á helgum degi
heilla-óskir vinum frá,
heim til þín úr Vesturvegi
víðigirta eyjan há,
rós á kærum bernsku-bala
bregður fyrir hugarsjón,
sonarmáli tungur tala
til þín, kæra móðurfrón.

Þó að vér á foldu fjærri
fagra reisum höll og bæ,
jafnan ertu okkur nærri,
áagrund í norðursæ.
Alt, sem kæra móður mæðir,

mein er vort og þungur kross,
alt, sem heillahag þinn glæðir,
hreinan fögnuð veitir oss.

Meðan vér í Vesturheimi
vora göngum æfibraut,
minning þína mæra geymi
mögur hver í sæld og þraut.
Meðan foss í dölum dynur
dafni alt þitt vald og ráð,
meðan hrönn við ströndu stynur
styrki drottinn móðurláð.

---

## SKAGAFJÖRÐUR.

Skagafjörður, bygðin bjarta,
bernsku foldin kær,
þar sem létt að lagar-hjarta
líða vötnin tær,
þar sem fjöll með faldinn gljáa
faðma vog og ból,
göfug minning gildra Áa
gyllir Tindastól.

Hver er sá, sem gleymt þér getur,
gullna æsku-bygð,
þinnar sögu lífsins letur
lýsir von og trygð.
Yztu tindar, instu dalir

óma þína frægð,
vogar, engjar, vellir, salir
votta skjól og nægð.

Lít eg yfir liðnar tíðir,
lifnar fjör og þrá,
velli skreyta lista lýðir,
leiftra sverðin blá.
Gleði titra tár á hvarmi,
traust og vonin rís,
ó! þú tendrar eld í barmi
Áa Sögudýs.

Hjaltadalur, Hólakirkja,
helgra sagna ból,
fræga skjólið fornra virkja,
fágað menta sól.
Miðaldar í villu viðjum
vizkuljós þitt skein,
þegar landsins þrengdu niðjum
þúsund tár og mein.

Mikli, frægi, dýri dalur,
drottinn hús þér bjó,
þar sem margur merkur halur
manndóms sverði hjó.
Silfurtæra áin ómar
endurfagran söng,
en í þínum hlíðum hljómar
heilög Líkaböng.

Meðan flæði stunda streymir
standa letruð orð,
Arason og Guðbrand geymir
gullin sögustorð.
Espólíns í ljóði, verki
lifir snild og dáð,
Hreiðar, Oddur, Hrólfur sterki
höfðu völd og ráð.

Lít eg fríða Flugumýri,
frægðin gyllir hlíð,
Kolbeinn ungi, kappinn dýri,
knár þar stýrði lýð.
Þarna líka Gissur gisti
gildur fyr' á tíð,
víf og sonu sína misti
svart við brennu stríð.

Forni, gildi Glóðafeykir
garpadögum frá,
manstu þegar risu reykir
rótum þínum hjá?
Örlygsstaða hörð var hildi,
hrukku þér ei tár.
Þegar stálin stungu skildi,
Sturla lagðist nár.

Haugs-að-Nesi hugur svífur,
hörð þar glymja stál.
Sterkar brynjur brandur klýfur,
brennur víkings sál.

Aldrei meiri hjörva-hryðja
hófst á Fannagrund.
Kakali þar Kolbeins niðja
krepti hels í mund.

Aldin skarpar brúnir bretta
Blönduhlíðar fjöll;
hlær við sjónum hauðrið slétta,
hólmar, vatnaföll.
Fríðar elfur falla hreinar
fram að Ránar byng,
þar sem fyrrum svinnir sveinar
sátu Hegra-þing.

Frelsi krýndur frægðar neisti
fjöllin gylti há,
ekki skorti hug né hreysti
Hjalta-syni þá.
Höldar sigursælir, prúðir,
settu lög og þing,
fylti tjöld og traustar búðir
táp og þjóðmenning.

Hegranes, þér alt af ann eg,
æskudaga rós,
barn í þínum faðmi fann eg
fyrstu von og ljós.
Þú átt beztu bros og tárin,
berjamó og lind,
þar sem liðu lífsins árin
laus við stríð og synd.

Fríða Drangey, flæði vafin,
forna hetju skjól.
Sterk frá Ægis-storðu hafin,
stöfuð frægðar sól.
Hart var brugðið benja-ljánum,
bitur hinsta þraut,
þegar Grettir knár á knjánum
kraup við Heljar skaut.

Þegar blíða, væna vorið
vermir fold og lá,
margur hefir blessan borið
brjóstum þínum frá.
Meðan dætur Ægis óma
öld þér syngi hrós,
vertu krýnd af björg og blóma
blessuð fjarðar drós.

Höfðastrandar hof og salir
horfa flæði mót,
háir tindar, hraun og dalir,
hlíðin Sl'ttu, Fljót.
Voldug gnæfa vestan megin
vegleg fjöllin blá,
yzt þar mænir öldum þvegin
aldin Skaga tá.

Sé eg Skarðsá letrar löndin
ljóma, þar var Björn,
stór var sálin, hög var höndin,
hyggjan mentagjörn.

Fróðari þá fanst ei mögur
Fróns á kaldri slóð;
listamannsins fræðin fögur
fékk að arfi þjóð.

Fram til heiða hlæja vegir,
hækkar Sögu ból,
Mælifells þar hnjúkur hneigir
höfuð móti sól.
Fyr í grænum Goðadölum
glóði veglegt Hof;
Eiríki í svásum sölum
sungu þjóðir lof.

Stóra Vatnsskarð, Víðimýri
valdi fornu trygð.
Geldingholt og Glaumbær dýri,
gullin Staðarbygð.
Tungusveit og djúpir dalir,
dunar Jökulsá
hátt þar mæna hamra salir
hlíðum bröttum frá.

Silfrastaði sólin roðar
syngur Norðurá,
fjalla kveðju firði boðar,
freyða gljúfrin há.
Miklabæ og Víðivelli
vegleg sýnir bygð,
skín á hverjum hnjúk og felli
hagsæld, von og trygð.

Ó, þú foldin æskudrauma,
Ásbirninga skjól,
fjöll þín, voga, velli, strauma,
vermi heilla sól.
Ment og göfgi gylli bygðir,
geymdu fræðin spök,
feðra snilli, drengskap, dygðir,
dáð og Grettis-tök.

Heill þér, fríði fjörður Skaga,
forna lista ból,
friður, lán og frægðarsaga
faldi Tindastól.
Kynsæld þín frá kappa dögum
krýni þjóðlífs völl,
kær þú verður meyjum, mögum
meðan gnæfa fjöll.

---

## VÍNLAND.

Vínland, Vínland, ó vonarland,
þú voldug risa mynd,
þars heilla dísir binda band
um blómgar slé'tur, gullinn sand,
og fríðan skóg og traustan tind
við tæra frelsis lind.

Með hetjuanda hug og mátt,
sem hindra engin bönd,

á framabraut þú horfir hátt
við hraustan lífsins gýgjuslátt,
er þrumar snjalt frá þinni strönd,
svo þegja önnur lönd.

Þú breiðir móti öllum arm,
þinn auð og nægta skaut;
ef gestir bera grátinn hvarm,
þeir glaðna við þinn mjúka barm,
með ljós og yl, sem léttir þraut
á lífsins skyldu braut.

Þú veitir alt, sem vekur þjóð
til vegs og frama hér;
í þínum æðum bogar blóð,
sem börnin fyllir hug og móð
að verða göfug, gagnleg sér,
og góð og hlýðin þér.

Þú frjálsa land með vald og vit,
er vanans slítur bönd,
þú launar hverjum starf og strit,
en stærir ekki þig af lit,
og réttir fúsa hjálparhönd
að hefja líf og önd.

Vort kæra land, með kraft og þor,
vér kjósum hjá þér skjól.
Ó vef að brjósti börnin vor,
þig blessi drottinn sérhvert spor

og ætíð krýni sigur-sól
þinn svása veldisstól.

---

## ÁVARP TIL ÍSLENZKRA LANDNÁMS-MANNA Í ARGYLE-BYGÐ,
### 15. Júní 1905.

---

Frá kaldri strönd, af kappaþjóðum fæddir,
þið komuð hér á víða eyðigrund
með von í hjarta, hetjumóði gæddir,
þá heilladísir signdu morgunstund.
Þótt lítið væri gull úr föðurgarði,
að góðu kom hið trausta víkingsblóð,
sem forðum líf og frelsið dýra varði,
er frægðar-sunna gylti norður-slóð.

Þið hafir traustar hendur lagt á plóginn,
þess há og fögur merki sjást í dag:
Þars fyr var eyðigrund við græna skóginn
er gróin bygð, sem vottar auðnuhag.
Já, frumbýlings er brautin þunga unnin,
nú þruma sigurljóð um grund og hæð.
Í vonar-heiði vegleg sól er runnin,
sem vermir göfugt blóð í hverri æð.

Með alda straumi Argyle-bygðin dafnar,
þar Íslands-merki prýðir frjálsa sveit.
Hinn göfgi maður sæmd og auði safnar,

og sönnum perlum fágar þjóðlífs reit.
Já, hafið þökk og hljótið krans í elli,
sem hér á grundu reistuð öndvegs-tjöld,
þars ykkar skína verk á frjófgum velli,
er vefja geislum hinsta lífsins kvöld.

---

## MINNI VESTUR-ÍSLENDINGA.

Nú skal syngja norrænt lag,
nú skal hafa glaðan dag,
nú skal fálkann hefja hátt,
heyja dans og gýgju slátt.
Sýnum það vér eigum enn
Íslands perlur, fljóð og menn,
Gunnars frækni, Grettis mund,
gáfur Njáls og Héðins lund.

Nú er gott að létta lund,
líta yfir horfna stund.
Liðin atvik, lán og þraut
ljósum krýna vora braut.
Þökk sé alvalds helgri hönd,
hér sem leiddi knör að strönd,
gaf oss fjör og frelsis hag
fram á þenna bjarta dag.

Himinn, fold og hrannar slóð
hljóma lífsins vonar óð.
Breitt og fagurt sjónar svið

svinnu mengi brosir við.
Norrænn andi, afl og þor
ungu landi helgar spor.
Bind þú, Vínlands sögusafn,
sigurkrans um íslenzkt nafn.

Ingólfs þjóð, með þrek og dáð,
þetta nýja fósturláð
hvetur þig að vanda verk,
vertu sönn og djörf og sterk,
réttu bræðra hug og hönd
heim á forna móðurströnd.
Göfugt fræ úr Gunnars mold
gylli blómum Vesturfold.

---

## MINNI ÍSLANDS.
(2. Ágúst 1903.)

Við norðurskaut, þar stynur aldan stríða
hjá strönd, er myndar breiðan vog og sund,
úr djúpi mænir fósturjörðin fríða
—þar feður vorir eyddu lífsins stund—
með eld í barm und björtum jökulskalla
og blóð í æð, sem nærir hrausta þjóð.
Ó komum nú og færum drotning fjalla
úr fjarlægðinni hlýjan sonaróð!

Vér munum allir æskudalinn fríða
og alt, sem heima veitti sæld og ró;

vér munum svanasönginn unaðs-blíða
og svala lind og hlíð og berjamó;
vér munum fjöll með faldinn silfurgljáa
og foss, er kveður hetjuljóðin sterk.
Já, þú ert fögur, foldin vorra Áa,
og fræg og mörg þú geymir undraverk!

Við þig svo margt oss bindur sterkum
böndum,
sem bresta ekki fyr en lífið þver.
Vér offrum glaðir huga, sál og höndum
að hjálpa öllu, sem að lyftir þér.
Ó, ber þú, alda, yfir hafið víða,
með ástarklið, á hlýrri sumarstund,
frá börnum kæra kveðju munarþýða,
og kystu sérhvert blóm á fósturgrund!

---

## ÞORRABLÓT.

Enn þá lýsir alda sól
áa vorra höfuðból,
enn er minst á horskan höld,
höfðingsskap og dáð og völd,
freyða horn, hreystin forn
hyllir sjót, við Þorrablót.
Upp úr munar ægi rís
Eyjafjarðar sögudís.

Helga magra hirð í kvöld
hjalar snjalt um tign og völd,
Eyfirðinga auð og dáð,
orku, snild og mentaráð,
ljómar fríð landnámstíð,
leiftrar bál í hverri sál,
lúðrar drynja, dunar storð,
dýrar krásir fylla borð.

Hrausta, fríða hetjuöld,
hér er myndin þín í kvöld,
norrænt göfgi, geð og mál
gulli vefur feðra skál;
upp með raust, hirðin hraust,
helgum gildið trygð og snild,
þá mun sérhvert Þorrablót
þekja blómum forna rót.

Heyrðu, vaska víkings sjót,
vígðu sérhvert Þorrablót
dýrstu perlum fósturfróns,
fjöri, þrótt og huga ljóns,
geymdu forn, gullinkorn,
göfgi máls, og speki Njáls,
þá mun norræn sigursól,
sveipa geislum Vínlands stól.

---

# FLUTT Í HEIMBOÐI Á GARÐAR,

20. Júní 1906.

Gróðursæla Garðar-bygð,
göfgi, von og frelsi trygð,
svipur þinn um sumardag-
sannan vottar auðnuhag;
skógur grænn, völlur vænn
vefja böndum akurlönd;
kring um bændabýlin frán
brosir yndi, fjör og lán.

Forðum sér hér festu lönd
fljóð og menn af norðurströnd;
göfgið forna, geð og þor
greiddi frumbýlinga spor,
yfir braut, þunga þraut,
þrek og dáð fékk marki náð;
fyrir dimm og daufleg kjör
drotnar yndi, líf og fjör.

Góða, hlýja Garðar-bygð,
gróin auði, von og trygð,
geymdu norrænt mál og móð,
menning, Sögu, hug og ljóð.
Dögg og sól, blessi ból,
blómin hrein, á þjóðlífsgrein;
gróðursæla Garðar-bygð,
guð þig krýni trú og dygð.

## MINNI ÍSLANDS.

(2. Ágúst 1900.)

Héðan stefnir hugar-sjón,
hlýjum vakin anda,
þar sem ránarfeldi Frón
faðmað sjáum standa,
faldað snæ, með fjöllin há,
fossa, hraun og glóðir.
Það er aldna eyjan smá,
okkar fósturmóðir.

Látum hljóma hátt í dag
hörpustrengi snjalla;
bindum saman bræðralag,
burt með sundrung alla.
Látum sjá að Ísland enn
á hér vini trygga,
vænleg fljóð og vaska menn,
Vesturheim sem byggja.

Forna, kæra fósturmold,
fræg í sögu og kvæðum,
aldrei hefir fegri fold
faldað sumarklæðum,
þó að margbreytt kuldakjör
kreppi að þínum högum,
lifir afl og ást og fjör
enn hjá Snælands mögum.

Ljúft er mér að minnast þín,
móðurlandið kæra,
þar sem fyrst ég man til mín,
munarvorið skæra.
Fyrir gleði, fyrir tár,
fyrir alt gott heima,
fyrir liðin æsku ár
aldrei skal þér gleyma.

Þig við elskum, ættarláð,
alla vora daga.
Lifi mentun, menning dáð,
mál og ljóð og saga.
Brosi þinni barna fjöld
bjartur unaðs dagur.
Skíni þér um ár og öld
auðnu-röðull fagur.

Héðan austur yfir sjá
ættlands heim á strendur,
Vesturheimi viðum frá
vinarkveðju sendum.
Meðan sunna lýsir láð,
lög og stjörnusali,
signi eilíf alvalds náð
Íslands fjöll og dali.

# MINNI VESTURHEIMS.

2. Ágúst 1902.

---

Vesturheimur, fagra fold!
frelsisreitur allra þjóða,
fríði geimur, frjófa mold,
fyllir móði sál og hold!
Yndislega, frána fold,
fús þín gæði öllum bjóða.
Vesturheimur, fagra fold,
frelsisreitur allra þjóða!

Vesturheimur, víða land!
vermireitur starfs og gróða!
Yfir flæði, fold og sand
flýgur hrós um þetta land.
Einingar þú bindur band
bezt á milli allra þjóða.
Vesturheimur, víða land,
vermireitur starfs og gróða!

Hér er frelsi, fjör og dáð,
fult er launað þeim, sem grefur.
Aldrei hefir alvalds náð
auðgað fleiri kostum láð.
Gulli er á götu stráð.
Gnægð fær sá, er viljann hefur.
Hér er frelsi, fjör og dáð,
fult er launað þeim, sem grefur.

Hér er lífsins unun öll,
alt, sem talar hjartans máli.
Skógi þakin, fögur fjöll
faðma dal og grænan völl.
Sveitabæ og borgarhöll
brautin tengir—gjörð úr stáli.
Hér er lífsins unun öll,
alt, sem talar hjartans máli.

Veiðisælu vötnin blá,
vafin skógi fagurgrænum,
þar sem eikin himinhá
hreinu nærir laufin smá,
kornið þróast ökrum á
angandi í sumarblænum.
Veiðisælu vötnin blá,
vafin skógi fagurgrænum.

Vesturheimur, laufga lóð!
lán og friður æ þig krýni!
Vora niðja—þína þjóð,—
þreki gæddu, hug og móð!
Geym í æðum göfugt blóð.
Glöð þér frelsissunna skíni.
Vesturheimur, laufga lóð,
lán og friður æ þig krýni!

Vesturheimur, fagra fold!
frelsisreitur allra þjóða,
geym í þinni mjúku mold
mitt í duft þá fellur hold.

Æ þig drottinn, frjófa fold,
faðmi, veiti heill og gróða.
Vesturheimur, fagra fold!
frelsisreitur allra þjóða!

---

## MINNI GIMLI-BÆJAR.

Gimli, forna goða ból,
guði vígða frelsis skjól,
þar sem blómguð björkin fríð
beygir grein að ránar-hlíð,
akur, skógur, engi, flóð
óma tímans sigur-ljóð.
Skreyta nú hin nýju lönd
norræn blóm af feðra strönd.

Heill sé þeim, sem þessa leið
þéttir forðum stýrðu skeið,
til að helga frjórri fold
frægð og dáð úr Garðars mold,
læra hærri lífsins óð,
lyfta stærri menta sjóð
ryðja niðjum betri braut
bjart við frelsis geisla skaut.

Verkin sýna völd og ráð,
víkings anda, snild og dáð;
létt er stríði, liðin þraut,
lögð að sigurmarki braut.

Menning tímans hyllir hátt
hraustan stofn í vesturátt,
borgin stækkar, stund og dag,
styrkist heill og bræðralag.

Gimli-bær, hjá báru slóð,
blíðri, lýstur vonar glóð,
gildur stofn af góðri rót
greinar breiðir himni mót.
Geymdu Íslands beztu blóm
björt, við tímans unnar hljóm,
fáguð lífsins sigur-sól,
sögufræga Goðaból!

---

## MINNI VESTURHEIMS.

Vesturheimur, storðin frjálsa, sterka,
sarfseminnar fagra, víða land,
þinna mörgu, miklu, frægu verka
minst er hvar sem aldan rís við sand,
veldi þitt með degi hverjum dafnár,
deyfð né vanans-bönd ei hefta þig,
alt af meiri mátt og auð þú safnar,
mark þitt æ er nýtt og hærra stig.

Heim til þín frá löndum ýmsum leita
lýðir hrifnir—von og frelsisþrá.
Þú ert auðug, öllum fús að veita
aðstoð þeim, sem kjósa dvöl þér hjá.

Fram með dáð þú drengi hrausta hvetur.
Dug og starf þú virðir allra mest,
kotunginn við konungs hlið þú setur,
krýnir heiðri þann, sem vinnur bezt.

Vesturheimur, vonarlandið fríða,
vort er starf—og framtíð—helgað þér,
lát oss örugt áfram jafnan stríða
undir þínum frjálsu merkjum hér.
Vaxi æ þinn vegur, ráð og saga,
—vert þú okkar niðja traust og skjól;—
heill og friður heims um alla daga
hlífi þínum gullna veldisstól.

---

## KVEÐJA VESTUR-ÍSLENDINGA TIL ÍSLANDS.

2. Ágúst 1904.

Nú hljóma ljóð á heilla stund
frá hjörtum Íslands barna,
og geislum krýnir gleðifund
hin gullna vonar stjarna.
Vér helgan þennan höldum dag
af hreinni sonar lotning;
og harpan syngur bezta brag
þér báls og jökla drotning.

Vor andi léttur fer á flug
með fögnuð yfir hafið;

vér nálgumst þig af hlýjum hug,
því hann fær ekkert tafið.
Ó, heill þér, dalur, foss og fjöll
og fjörður tignarlegi;
þar opnar faðminn fegurð öll
á fríðum sumardegi.

Vér þráðum frelsi, horfðum hátt,
og hugðum kjörin létta,
þig skorti fé og fjör og mátt
til fulls þín börn að metta;
því kvöddum vér þig, móðurmold,
og mæran bernsku haga,
og völdum stað á vestur-fold,
með von um betri daga.

Og aldrei verður von sú tál—
það vitnar bygðin fögur,
því hér fær notað hönd og sál
inn hrausti Íslands mögur.
Með framtíð þróast fé og hrós
á fósturlandi nýju,
og fræið myndar fríða rós
í frelsis skauti hlýju.

Þó bönd þig, móðir, beygi hörð,
þér börnin ekki gleyma;
svo margt er það úr þinni jörð,
sem þakka ber og geyma,
er sýnir dug og þol og þor
á þjóðlífsvelli hlýjum,

og krýnir sigri verkin vor
í vonarheimi nýjum.

Þú gafst oss fagurt frelsisvor,
er frægðarmark þér reisti,
þú gafst oss norrænt geð og þor
með göfgi, snild og hreysti;
og því skal nuna mál og ljóð,
þig, móðir, jafnan styðja,
á meðan vermir víkings blóð
í vestri þína niðja.

---

## MINNI CANADA.

(2. Ágúst 1904.)

Canada, fagra fold,
frjóvsama, gullna mold,
listanna láð;
vefur þinn veldis-stól
vermandi frelsis-sól,
brosir um hlíð og hól
hagsæld og dáð.

Hvar er þér fremri fold,
faðmhlýja kosta mold,
Canada kær?
Hver stígur hærri spor,
hvar brosir fegra vor?

velsæld og þrek og þor
þjóðlífsins grær.

Öllum þú heilsar hlýtt,
hagsæla landið frítt
skortir ei skjól;
færandi faðminn mót
framandi sveini' og snót,
hlær þér við hjartarót
hamingju sól.

Mörg er þín mentabraut,
mjúkt er þitt fóstur-skaut,
blómlega bygð.
Við þinnar hörpu hljóð,
hljómfagran lífsins óð,
eflist hjá ungri þjóð
ást, von og trygð.

Framtíðin björt og blíð
brosir við þínum lýð,
stórvirkja storð;
gefur þér gullin öld
gróandi líf og völd,
hljómar um heimsins tjöld
hreystinnar orð.

Canada, kosta fold,
kærasta fóstur-mold,
ljóskrýnda láð;
hylli þinn veg og völd

vaxandi sona fjöld,
blessi þig ár og öld
alföður náð! —

---

MINNI HÓLASKÓLA.

Á 25 ára afmæli 1907.

Norðlendinga forna, fríða,
fræga höfuðból,
söguljósið sigurblíða
signir Hólastól,
göfug lifa manndóms merkin
mengi helg og kær,
yfir fögru áa verkin
árdagsroða slær.

Lífsins hörpu hljóma strengir
helgan vonar óð,
fram að vinna, fljóð og drengir,
fyrir land og þjóð,
hrindið vanans hlekkja-böndum,
hlýðið tímans raust,
fram með sigurhjör í höndum,
hreysti, þor og traust.

Enn þá vermir norrænn neisti
Norðlendinga blóð,
enn þá fram með hug og hreysti
horfir Ingólfs þjóð.

Yfir forna, háa Hóla
heilög sunna rís,
enn sem fyrri frægan skóla
faðmar Mentadís.

Skagfirðingar! hefjið Hóla
hátt í sögu lands,
faldið ykkar fræga skóla
fögrum sigurkranz;
fram í verki, stærra, stærra
starf að prýða ból;
rís með árum hærra, hærra
Hóla dýrðar-sól!

---

## VESTURHEIMUR.

Þú frjálsa grund með gull og stál,
þú geimur stórvirkjanna,
er fegurst talar tímans mál
og tignar alt hið sanna;
hin þyngstu verkin verða fis,
nær vegur trausta höndin;
á þínu merki brennur blys,
sem bjarma slær á löndin.

Þú helgar menning hug og sál—
þinn heiður skín í verki;
þitt orð er: fram! þinn styrkur stál
og starfið sigurmerki.

Hér börn þín ekkert beygir vald
á braut, sem hindrað getur;
með hverri sól á söguspjald
þú setur gullið letur.

Hér finnur æskan örugt skjól,
sem afl og menning þráir,
því hvergi fegri frelsis-sól
á foldu geislum stráir.
Ó, mikla land, er mög og drós
í móðurarma vefur,
úr dulargeim við dagsins ljós
þú dýrar perlur grefur.

Af fjarri strönd, um fold og lá
á fund þinn margir leita,
og engum burt er bægt þér frá,
sem barn þitt kýs að heita;
svo hjá þér myndast máttug þjóð
í menning, ró og friði,
er skapar hraust og heilnæmt blóð
og heill í þúsund liði.

Þú, Vesturheimur, blómga bygð,
þú bjarta vonarstjarna,
í þínum fagra faðmi trygð
er framtíð vorra barna;
þig styrki drottins helga hönd
að hefja frelsis merki,
svo yfirgnæfi önnur lönd
þinn ægishjálmur sterki.

## MINNI VESTUR-ÍSLENDINGA.

2. Ágúst 1907.

---

Rís á morgni himinheiðum
hrausta þjóð með sigurlag,
unaðshlý frá austurleiðum
óma gleðiljóð í dag;
reistu hátt þitt móðurmerki,
mund og trausta hetju sál,
lát í anda, ljóði, verki
leiftra þrungið Heklu bál.

Helgar raddir hingað óma,
háum Íslands tindum frá,
sumardýrð í sólarljóma
sveipar grund og fjöllin blá.
Frægra völlinn feðra-þinga
fylkir Dana prýðir nú.
Lyftist hugur lýðmæringa,
landsins frelsi, von og trú.

Þótt á fjarri stað vér stöndum,
streymir heitt í æðum blóð,
heim að Íslands öldnu ströndum
óma þúsund strengja hljóð.
Viti heimsins álfur allar,
að hér byggir norræn sveit,
sem að, þegar þörfin kallar,
þjóðarskyldu sína veit.

Goll

Verum allir Íslendingar,
aldrei gleymist feðra mál,
hvað sem mætir, hvað sem þvingar,
höldum velli, reiðum stál;
vér, sem byggjum Vínlands foldu,
verndum þetta helga band,
vökvum fræ úr móðurmoldu,
munum okkar þjóð og land.

Vak, mín þjóð, á Vesturgrundu,
vak og tak þitt sverð og skjöld,
lyftu hjarta, lund og mundu,
launin verða þúsundföld.
Hér skal forni stofninn sterki
stórum greinum prýða völl.
Rís þú, kæra móðurmerki,
menningar á hæstu fjöll.

---

## MINNI CANADA.

Megni gróin, megin-fögur
mikla storð á vesturbraut,
þar sem dafnar mey og mögur
mjúkt og hlýtt við fósturskaut,
þar sem glóir gull í moldu,
gýgjan drýgir vonarhljóm, —
sástu maður frjórri foldu,
fleiri perlur, stærri blóm?

Þú ert ung, en samt þín saga
sýnir verkin mörg og fríð,
huldar gátur lífsins laga
leysir þú með nýrri tíð.
Undir vonar ægishjálmi
yddur ljómar sigurhjör;
skautið djúpa, skreytt af málmi,
skýrt ber vott um auðnu kjör.

Snjalt um heimsins álfur allar
ómar þinnar gýgju stál,
trútt þú leiðir, kennir kallar,
koss þinn engum reyndist tál.
Hvergi vísir, vermdur moldu,
vefur stærri jurta krans;
aldrei skein á firða foldu
fegri braut hins unga manns.

Vonin heit í hjörtum alin
njúpar geislum æfibraut.
hér er, niðjum vistin valin
við þitt kæra fósturskaut.
Vilji, mál og hugsun hæsta
helgist þér um stund og öld,
fisið minsta, fjallið stærsta
frægi þinnar sögu skjöld.

Lífsins vona foldin fögur,
fóstran kær á vesturbraut,
hvergi getur hrund né mögur
hlotið betra móðurskaut.

Meðan geislar gylla moldu
gýgjan drýgir frelsishljóm,
krýni þína frjófu foldu
fleiri perlur, stærri blóm.

# Ýmisleg kvæði.

## VORIÐ KALLAR.

Vaknið allir! vorið kallar!
víkur nótt, en ljómar sól.
Lífsins gjalla gýgjur snjallar:
gróður, þrótt, og von og skjól.
Lifnar flæði, laufgast svæði,
leyst úr þröngum klakahjúp.
Fcður hæða feginskvæði
flytur himinn, grund og djúp.

Vonir glæðast, ljósið ljómar,
lífið hlær í mildum blæ.
Blómin fæðast, ástin ómar,
yndi nærir fold og sæ.
Fram til verka vorið kallar
vakinn þrótt, á morgunstund.
Streymir fjör um æðar allar
eftir kaldan vetrarblund.

Tæp er stundin, stuttur skólinn,
starfið margt og skyldan há.

Vökum meðan sumarsólin
signir blómin veik og smá.
Þegar haustið kalda kallar:
kvíða elli, stríð og þraut —
fellur þá sem fis til vallar,
fegurð vorsins, líf og skraut.

Hörpur gjalla, herrann kallar,
Heyrið vorsins milda blæ!
Tímans falla öldur allar
í hinn mikla, djúpa sæ.
Bráðum strengir breyta hljómum,
bliknar fold og verður snauð,
þá er seint að safna blómum,
sem að liðna vorið bauð.

---

## TIL KUNNINGJA MÍNS.

Hljóma gýgjur heims um ból,
harma skýið tefur,
ársins nýja náðar-sól
næring hlýja gefur.

Strengi knýja aldar-óms
atvik hlý og þrautir,
ótal skýjum skapadóms
skauta nýjar brautir.

Inn skal hringja hug og þor,
hræsni þvinga niður,
þá mun yngjast þróttur vor,
þjóðmenning og friður.

Hverfi stríð og trega-tár
tals af víðu þingi,
glaðar tíðir, gullið ár
gæfan blíð þér syngi.

---

## SKILNAÐAR KVEÐJA.

Með vinum hér drukkin er skilnaðar skál,
þótt skiftist nú vegir að sinni.
Þið verðið mér samferða austur um ál
í anda og hjartkæru minni,
og þar sem að bárurnar bera mig fjærst,
þið brosið mér hlýjast og verðið mér næst.

Eg kveð ykkur, vinir, sem voruð mér hjá
á vonbrigða stundunum hörðu,
og tókuð mér beiskasta bikarinn frá,
nær bölið var sárast á jörðu.
Því guð er í stafni með styrkleik og ráð;
ið stríða og blíða er himinsins náð.

Eg kveð þig nú, hjartkæra heimilið mitt,
þars helgustu vonirnar lifa;
eg þekki hið liðna, en ljóst er ei hitt

hvað lifdagar ókomnir skrifa.
En guð er í stafni, og stjórnin er náð,
þar stendur og fellur vor hagur og ráð.

Og nú kveð eg landið, sem léði mér skjól
á liðugum tuttugu árum;
í vetrarins hretum og sumarsins sól,
með svífandi lífdaga bárum.
Minn guð er í stafni og stjórnin er rétt,
hann styður hvert brautin er þung eða létt.

Eg hræðist ei grand, því að herrann er vörn
á heimstíða öldunum stærstu;
og því kveð eg landið og brúði og börn;
nær byggi eg staðina fjærstu
eg vík mér í anda um vestrænan geim,
unz vordaga bárurnar flytja mig heim.

---

## TÓMLEGT ER Á TÍMANS SUNDI.

Tómlegt er á tímans sundi,
tregi beygir veika lund,
aldrei lífsins lúður drundi
ljóð svo köld um farna stund.
Víst er fjarri vestrið kæra,
vinamál og gleðisól;
dimmar bylgjur djúpið hræra,
daufleg eru þessi jól.

Þó skal ekki þar um kvarta,
það er nóg, eg finn og skil,
himins náðar brosið bjarta
brjóstið fyllir vonar yl.
Aftur vorið væna sendir
vinarmál og gleðisól,
á þann sannleik alt mér bendir.
önnur koma fegri jól.

---

## HÉR SKILJA LEIÐIR.

Hér skilja leiðir, ljúfa mær;
hin liðna gleðistund
á götu mína geislum slær
að grafar hinsta blund.

Ó, geymdu sérhvern geisla vel
er guðs frá sól þér skín,
svo aldrei falli frost né él
á fögru blómin þín.

---

## HAUST.

Þagna lindir, blikna blóm,
bölið kindur stingur,
norðanvindur dauðadóm
dal og tindi syngur.

Stríðið yfir alheims lönd
alda svifin heyja;
föst þar skrifar föðurhönd:
fæðast, lifa, deyja.

---

## VETUR.

Hefir valdi vetur náð,
—vér þess gjalda fáum,—
sveipar kaldur sæ og láð
svella faldi bláum.

Visnuð klæðist foldin fönn,
frosti skæðu stungin;
feigðar kvæði kvala-hrönn
kveður bræði þrungin.

Hart að þrengja brauta-kjör;
það má enginn vona,
að oss lengi endist fjör,
ef það gengur svona.

# Á ÞINGVELLI 1907.

Nú loks er mér runnin hin langþreyða stund,
að líta þig, fornhelga alþingis grund,
þar feðurnir bygðu sér búðir.
Með hreystina, fjörið og hugrekki ljóns,
þeir héldu við sjálfstæði þjóðar og fróns,
svo drenglyndir, djarfir og prúðir.

Eg horfi með undrun á Almannagjá,
og æðarnar titra af brennandi þrá,
að líta þá lýðfrægu drengi,
sem stóðu hér forðum með brynjur og brand,
og börðust og vörðust svo hljómaði land
um þróttinn og manndáð hjá mengi.

Og heill sé þér, Lögberg, frá liðinni stund
þú ljósgeislum stráir um dali og grund
af fornhelgum frelsisins ljóma.
Mér finst að eg sjái hér feðranna þjóð,
með frækni og göfgi og víkinga blóð
og blikandi skildi og skjóma.

Hún Öxará streymir sem áður í dag,
og enn þá er tjaldað með hátíðabrag
á vellinum feðranna vorra.
Og enn gróa blómin, því minning og mál
hjá menginu lifir um Hall, Geir og Njál
og Gissur og Gunnar og Snorra.

Og heill sé þér, foldin mín! feðranna skjól,
með faldinn þinn hvíta og vornætur-sól
og fjöllin og fossana þungu.
Hver ókominn dagur,—með frelsi og fjör,—
þér fæði þá niðja, sem bæta þín kjör,
með íslenzkan anda og tungu.

---

## DRANGEY Á SKAGAFIRÐI.

Þú mikla, fríða fjarðar-drotning,
með frægðaróð um liðna tíð,
til þín eg ætíð lít með lotning,
þar lagarjóðin heyja stríð.
Þó falli eik frá römmum rótum
og rósir byrgist heljarfönn,
þú stendur enn á sterkum fótum,
þar streymir tímans reginhrönn.

Þig prýddi forðum hetjan hrausta,
með hrós um fold og ránarbing,
er sýndi frægð þá fór að hausta
og fjanda lið var alt um kring.
En grimt var norna geð og ráðið,
hann Grettir féll á heljarslóð.
En sagan skreytir svellaláðið,
og sonarminning geymir þjóð.

Ó, stattu fast og stattu lengi
á sterkri rót í lagarós,

og kryndu gullnum gjöfum mengi
úr gnægtasjóði, fjarðardrós.
Um sumarstund og svalan vetur,
í sæld og harmi, dag og nótt.
Þinn faðmur skín með fágað letur
um frónska dáð og Grettis þrótt.

---

## ÁVARP TIL VERKAMANNA.

4. September 1905.

Með gleðibrag og hornahljóm
þér hefjið yðar merki,
svo heimur fel'a hlýtur dóm
að hér sé ráð í verki,
er sýnir göfugt mark og mið,
að menning sannri virna.
Nær sérhver öðrum leggur lið
má leið til sigurs finna.

Þú verkamaður, meginstoð
og máttur allra þjóða,
í framsókn heimsins verndarvoð
og vísir sérhvers gróða.
Ó, háðu stríðið hreinn og frjáls,
það helg er lífsins krafa;
en bind þú aldrei hug til hálfs
á harðstjóranna klafa.

Svo vinnið fyrir land og lýð
í ljóss og frelsis nafni,
því fjöldinn sigrar sérhvert stríð
með samtökin í stafni.
Það veitir niðjum gullið gjald
með geislarún á skildi,
en aðalshroki, hefð og vald
þá hefir minna gildi.

---

## TÓBA LJÓÐ.

Endalaust við atvikin
auðnan skiftir höndum,
nú er traustur Toby minn
tengdur heljarböndum.

Rúmið stóra stendur autt,
stundir blandast trega:
fallinn jór, því fjósið snautt
finst mér algerlega.

Þitt á velli þrek og fjör
þekti margur halur;
aldrei féll að feigðarskör
frægri gjarðavalur.

Þú varst fríður, frár og stór,
fjörið brann í æðum;

lífs um tíð ei ég fæ jór
jafnan þér að gæðum.

Þegar óláns öldurnar
ýfðu sjóinn tíða,
týgjum bjó eg beizlamar,
burtu sló það kvíða.

Þraut og kali sökk í sjó
sinnudal er lúði:
Flaug um bala, mel og mó
mélava'ur prúði.

Lífs um ála lánið hló
lyfti sál frá jörðu;
fótur bál úr björgum dró,
bryddur stáli hörðu.

Hels eg mundi kanna kaf,
kvíða ei né bíða,
ef ég fyrir handan haf
hitti jóinn fríða.

Örðugt þetta er að sjá,
efinn grettir brána,
hvort eg sprett þar fengi frá
fótaléttum Grána.

Þó eg margan þófaval
þiggi hér að láni,
enginn kætir sinnusal,
sem að forðum Gráni.

Mínum lýsir munarhvamm
minning þinna daga,
meðan sé eg gjarðagamm
græna prýða haga.

Tæpa skeiðið táradals
tap og neyðin sýnir,
þögult leiði þófavals
þökk og heiður krýnir.

---

## VOR.

Hörpu strengir hlýir óma,
himinn, jörð og ránarból
sveipast helgum sólarljóma,
sem að boðar þrótt og skjól.
Þunga vetrar stríðið stillir
stór og máttug alvalds hönd,
nýjum gróður fræ hvert fyllir
fyr sem reyrðu klakabönd.

Sundin ljóma, grundir glitra,
gýgjan hljómar frelsis mál,
morgundaggar tárin titra
tær við himins sólarbál.
Lítið fræ, sem faldist moldu,
fléttar nú sinn blóma krans,
vottar alt um ver og foldu
vald og mildi gjafarans.

Lyftu, maður, mund og hjarta,
menning þín er heimsins lán,—
þrautir sigrar sjónin bjarta,
—svefn og deyfð er auðnu rán,—
Meðan vorið vonarhlýja
vermir geislum blómin smá,
láttu dáð og djörfung nýja
djúpt þér rætur festa hjá.

Hátt er kallið: Heimur veikur,
hlýddu þinnar skyldu raust,
fyr en þú ert fölur, bleikur
fallinn nár, og komið haust;
sáðu fræi, Sagan geymir
sérhvert blóm frá andans rót;
sálin lifir, guð ei gleymir
gjörðum þeim, sem unnu bót.

Árin líða, vor og vetur,
von og kvíði, sæld og neyð;
herrann tíða takmörk setur,
tæpt er lýðum markað skeið.
—Ó þú sæli sumardagur,
signdur himins dýrðarlind,
guðdóms náðar-geisli fagur,
gegn um jarðar skuggamynd.

# LANDNÁM VESTUR-ÍSLENDINGA.

Dagur brosti, sumar-sól
sollið gylti ránar-ból,
gnoðin sveif með seglin þönd,
sjónum huldist fósturströnd.
Öldur teygðu fráan fald
fagurblátt við himin-tjald.
Von og þrek í stafni stóð.
Stormar þuldu sigurljóð.

Ræddi traust á þiljum þjóð,
þétt og göfugt norrænt blóð
fylti brjóstin hetjuhug,
helgri von og trú og dug,
sem að hefir söguskjöld
sveipað frægð á liðnri öld,
gegn um myrkur, mein og þraut
mörgum steini velt af braut.

Gnoðin skreið um víðan ver;
víf og drengir skemtu sér;
hreysti, fjör og frelsis-þrá
fornar tíðir mintu á.
Frægðar gyltar geisla kranz
glaðar öldur stigu dans.
Hló í vestri svipfríð sjón;
sólin skein á vonarfrón.

Hægt að landi líður knör;
ljómar bros á hverri vör,

stígur þrekin þjóð á land.
Þýtt og létt við gullinn sand,
syngur aldan sigurlag
sem að boðar nýjan dag,
nýja tungu, nýjan sið,
nýjar bygðir, auð og frið.

Gumar námu grund og skóg,
gilda lögðu mund á plóg,
framgjarn andi, afl og þor
engin taldi þrautaspor.
Þyrnar urðu blóm á braut,
brosti fagurt nægta-skraut,
lífs við sterkan strengjaglaum
stundin leið í vonardraum.

Nú er orðin blómleg bygð,
brosir frelsi, ást og trygð,
von og friður signir sveit,
sælli storðu enginn leit.
Nýt og göfug norræn þjóð
nýrri helgar fósturlóð
framtíð, krafta, fjör og ráð;
fögur saga verður skráð.

# VORVÍSUR.

Hörpuljóð,
heimsins þjóð,
heyr og rís á fætur;
vakna sál,
sólarbál
signir kaldar rætur;
flæði, jörð,
frelsuð hjörð
feginstárum grætur
þeim, sem dögg og ljósið koma lætur.

Kröftug hönd
klakabönd
köld af foldu greiðir;
eik í lund
lífs á stund
laufin fögur breiðir;
rósin grær,
röðull skær
ríki dauðans eyðir.
Von og frelsi lýsir allar leiðir.

Vors í blæ
vakið fræ
vefur krans á bala;
lífsins mál,
laust við tál
lindin ómar svala;
ást og náð,

afl og dáð
allir hlutir tala.
Faðmar jörðu fegurð ljóssins sala.

Blíða vor,
vermdu spor,
vektu þann, er sefur,
fyr en haust
hels með raust
holdið moldu vefur.
Notum pund,
stutt er stund,
störfum—skyldan krefur—
meðan sól og sumar drottinn gefur.

---

## HAUST.

Fríðar eikur kreinkir kvöld,
Kári feykir moldu,
haustið bleika beygir köld
blómin veik að foldu.

Köldum blundi hótar haust,
héla grundir þekur,
hrönn á sundi herðir raust,
hauðrið undir tekur.

Meðan njólu neyðarkíf
nístir hól og grundir,

alt að skjóli leitar líf
líknarsólu undir.

Þó á hausti hrifi blóm
helja traust til vallar,
endalaust með líknarróm
lífsins raustin kallar.

Vetrarstund þó veiki þor,
vísdóms bundin lögum,
eftir blundinn breiðir vor
blóm í lund og högum.

---

## VORVÍSA.

Sólin gyllir fjöll og flæði,
fritt og blítt er nú í dag;
vonargýgjur kveða kvæði
krafti fyltan sigurbrag;
heims um geiminn herrans auga
horfir kærleiks stóli frá,
náðargeislar ljóssins lauga
lífsins hélu kuldastrá.

---

## TIL ÁSMUNDAR GESTSSONAR.

Mörg þó stundum mæti bára þétt,
markið settu hátt og stefndu rétt;
þung er skyldan, listin fagra löng,
lífið stutt, en gatan brött og þröng.

Þér gæfan felli gullin blóm í skaut,
og greiði veg um sollið tímans flæði,
að sigra hverja sorg og lífsins þraut,
unz síðsta stundin boðar eilíf gæði.

## TIL FRÖKEN M. BJARNASON.

Yfir svala selatröð,
sældar vafinn kjörum,
drakk eg ástar mæra mjöð,
mey, af þínum vörum.

## FLUTT Á KVENFÉLAGSSAMKOMU.

Nú heilsar oss vorið með lífsins sigur-ljóð,
og löng breytist nóttin í hlýja vonarglóð,
sem vermir alt um flæði, loft og fold,
og færir yl og gróður kaldri mold.

Já, vorið oss kallar að bregða þungum blund
og búast til verka á lífsins gróðrar stund.
Það kallar blítt og mælir vinar mál,
svo munarþýtt og fagurt og trútt sem stál.

Það kallar oss saman á fagran vina fund
að fagna, því liðin er döpur vetrar stund;
það leysir alt, sem bundu klaka bönd,
og boðar þrótt og frelsi um höf og lönd.

Og velkomnir gestir, vér fögnum yðar fund,
það flytur oss gleði og styrkir hug og mund
hve fúsir þér oss leggið lið og þor
á lífsins braut að stíga vor skyldu spor.

Vér þökkum af hjarta, já, dreng og hverri
drós,
í daganna stríði sem tendrar yl og ljós
með vinar lund og hlýrri bróðurhönd,
af hreinum kærleik styrkir hin veiku bönd.

Þó veikur sé máttur, er starf og stríðið létt
ef sterkur er viljinn og markið hátt og rétt,
hið smáa fræ oft verður blómleg björk,
sem býr oss skjól á lífsins eyðimörk.

Svo gleðjist nú, vinir, og léttið þreytta lund,
því liðinn er vetur og sælli brosir stund.
Vér óskum þess, að blómgi yðar braut
hið blíða vor með gróður, yl og skraut.

# VORT LÍF ER SEM BLÓMIN.

Í angandi lundinum lifnuðu blóm
á ljósríkum vordegi hreinum,
og fuglarnir sungu með sigrandi hljóm
á sólroðnum bjarkanna greinum.

Og indæla vorið með vonir og þrótt
þar vaggaði blómunum ungu;
með hverfandi stundum þau stækkuðu fljótt;
um styrkleika fuglarnir sungu.

Og tímarnir liðu,—nú lækkaði sól ,
á leiðina skuggarnir sigu,
því vorið var farið með fegurð og skjól,—
þá fölnuðu blómin og hnigu.

Vort líf er sem blómin, það fölnar svo fljótt
í frostbyljum hverfandi alda.
Já, æskan er vorið með unað og þrótt,
en ellin er haustnóttin kalda.

## BROT ÚR LJÓÐABRÉFI
til fermingarbróður míns.

Ljóða dýsin, helg og há,
hertu strengi þíða,
sendu hreina hljóma frá
högum bernsku-tíða.

Manstu, vinur, liðna leið,
leiki munarþíða,
þegar sólin skein á skeið
skærra æskutíða?

Vonin hló, því heims var leið
húmi engu falin;
þá var jóum skelt á skeið
skarpt um Hjaltadalinn.

Þorvaldssyni*) þar við hjá
þuldum heilög fræði;
öðling þeim við eigum frá
andans margföld gæði.

Margan þótt eg beri brest,
breiskur rétt að vonum,
gullin þau eg geymi bezt
gefin mér af honum.

Manstu fjöllin, fríða sveit,

*) Síra Ólafur Þorvaldsson í Viðvík.

fræga kirkju Hóla?
Þar við unnum hjartans heit
helgum lífsins sjóla.

Manstu leiki, gleðiglaum,
glímutök og föllin
Þuldu vorsins vonardraum
vogar, grund og fjöllin.

Þá var sungið sigurlag,
sál ei beygði tregi;
aldrei sælli sólardag
sá eg lífs á vegi.

Þrátt við höfum, þú og eg,
þólað veðrið kalda,
síðan oss í vesturveg
velti lífsins alda.

Valt er lán í lífsins vist,
löng það vitnar saga.
Eg hefi' eignast mikið, mist,
má þó ekki klaga.

Margan þó að mætan vin
moldin kalda feli,
alt af-gefur geislaskin,
guð, með hverju éli.

---

## VOR.

Frelsið hrærir fjær og nær
fold úr værum dróma;
röðull hlær, en rósin grær,
raddir skærar hljóma.

Ó, þú blíða, blessað vor,
blómatíðin fríða,
sendu lýðum sól og þor,
svæfðu stríð og kvíða.

---

## HEIMKOMAN.

Æsku-röðull endurskín,
instu strengir hljóma;
sæl og blessuð, sveitin mín,
sveipuð frægðarljóma.

Þig að finna, feðra mold,
frýjar sinnið trega;
sonur þinn af fjarri fold
fagnar innilega.

Lát mig, bragargyðja góð,
gullin beztu finna,
dýpsta lífsins ástaróð
æskudaga minna.

~~Vektu blómin bernskudals,~~
bál í sál og taugum,
svo að tárin frí við fals
falli mér af augum.

Bjarta lindin leiktíðar,
laus við myndir spiltar,
við þig bind eg bögurnar
barnsins yndi fyltar.

Lífs við svalan lúðurhljóm
lýist mund og sinni;
nú er kalið bezta blóm
barns frá stundu minni.

Þó eg, sveit, þér flyttist fjær
fjörs á stunda bárum,
lifir minning ljúf og kær,
lauguð bernsku tárum.

Ef eg væri ei hismi og hold
heims á köldum sævi,
fegri tíð og frjórri mold
feginn þér eg gæfi.

Hér eg kendi létta lund
lífs með bending hlýja;
dalir, strendur, dæld og grund
daginn endurnýja.

Kalt við heimsins klakaþil

kenni eg yl í geði;
hér eg endurvekja vil
vorsins draum og gleði.

Hvar sem eg með stríðum straum
stefni mínu fleyi,
láttu þennan dýra draum,
drottinn, glatast eigi.

---

## EG ÁTTI EIK Í RUNNI.

Eg átti eik í runni,
þar árdagssólin skein,
eg engu meira unni
og ekkert lífsins mein
var þungt, nær þar eg dvaldi,
í þessum sælureit,
og laufguð limin taldi,
er lýsti vonin heit.

Og eikin ávöxt færði,
við unaðsmildan hljóm
þar dögg og dagur nærði
hin dýru lífsins blóm;
þá kveið ei fjörið frosti,
sem fellir vorsins skraut,
svo ljúft hver lilja brosti
við ljóssins geisla skaut.

~~Og ætíð bezt eg undi~~
þar eikin fagra stóð
og breiddi lauf í lundi
mót lífsins vonarglóð;
þá hlýddi eg á hljóminn,
sem hjartans talar mál,
en heimur hló við blómin
með hverfulleik og tál.

En vorið vinarblíða
með vonir hvarf á braut,
og eikin frjálsa, fríða
þar feldi lífsins skraut;
eg heyrði dauðadóminn,
sú dimma stund var hörð;
af greinum brustu blómin
og beygðust köld í jörð.

Eg kraup að kaldri moldu
og kysti fallna eik,
þá flæddu tár á foldu
um fölnuð laufin bleik;
og síðan sorgin hefur
oft sætan kveðið brag
sem hæsta huggun gefur
við hinsta sólarlag.

# VOR.

Hlýtt og þýtt um lög og lönd
lífsins strengir óma;
réttir varma vinarhönd,
vor, með yl og ljóma.
Himinn, græðir, grund og tind
gyllir vonar-roðinn;
náttúrunnar nægtalind
nú er öllum boðin.

Lífið brosir lágt og hátt,
leyst úr vetrar dvala;
alheimsstjórnar ást og mátt
allir hlutir tala.
Fríð í lundi fjóla grær;
fellur merki klaka;
frelsi ríkir fjær og nær;
fegins raddir kvaka.

Hjarðir fagna, grundin grær,
glóir eik í runni;
mildum kössi kátur blær
kyssir land og unni.
Svanir fögru sundi á
sætan hefja róminn;
köldu vetrar vigi frá
vöknuð rísa blómin.

Lækir streyma létt um völl
leið til unnar-sala;

eykur hljóð og fögur föll
foss í skauti dala.
Fræ í mold, sem fyr var kalt,
fyllist þrótti nýjum.
Blíða vor, þú vefur alt
vinarfaðmi hlýjum.

---

## ÍSLAND.

Kveðið í Janúar 1904.

Landið mitt með hraun og hjarn,
Heklu bál og fossa—
landið þar sem bjó eg barn—
brjóstin þín og kossa
man eg þar til þrek og blóð
þrýtur hels við dróma;
þú mér kendir lifsins ljóð
lengst og bezt sem óma.

Ein í norðursæ þó sért,
sveipuð klaka faldi,
kæra fósturfold þú ert
fræg á sögu spjaldi;
aldrei hefir betra blóð
blætt á nokkru láði,
hvergi fegri list né ljóð
lífsins óður skráði.

Þó að eg sé fluttur fjær,
fóstra, þínum högum,
mér þú varst og verður kær
vafin fanna-lögum.
Djúpt í hjarta ósk eg á:
að þitt mál og saga
lifi mér og mögum hjá
móðir, alla daga.

---

## MÓÐURÁSTIN.

Hvað er svo dofið, kalt og hart og kalið,
sem klöknar ekki fyrir þinni sól
Hvað er svo litið, lágt og þreytt og kvalið
og líknarsnautt, að ekki finni skjól
í skauti þínu, bótin allra barna,
þú blíða, hreina, sterka móðurást,
á lífsins vegi stjarnan allra stjarna,
við storm og hret sem aldrei neinum brást

Þú brosir jafnt um bjartan dag og nætur
og breiðir geisla yfir lífsins hjarn,
og stálið mýkist, steinninn kaldi grætur,
hinn stolti verður aftur lítið barn;
og hvar sem lifna lauf á grýttum vegi,
þar ljómar bezt þín heita kærleiks-sól;
já, þú ert allra ljós á köldum legi,
með líkn og yl frá himins náðarstól.

Ó, móðurást, þú lind er sífelt svalar,
þú sól, er ljómar gegnum élin hörð,
ó, blíða rödd, sem til þín, maður, talar
og tendrar fyrsta ljósið hér á jörð,
og loksins þegar lúður dauðans hljómar
og leysast bönd við þetta kalda hjarn,
þá huggar bezt, og inst í hjarta ómar
það orð frá móður, sem þú lærðir barn

---

## NÝJA ÁRIÐ.

Enn rís á alheims sæ
aldan í morgunblæ,
ljósið í austrinu ljómar,
nærandi nýjárssól
nýtt boðar líf og skjól,
haf, jörð og himininn ómar.

Stjórnandi himins hönd
heimsins um gjörvöll lönd
bendir á takmörkin tíða;
lífið er ljós og náð,
líknandi drottins ráð,
leið til að læra og stríða.

Tökum nú hjör í hönd,
höggvum þau sterku bönd
meinum og villu sem valda.
Þökk fyrir liðna leið,

lof fyrir byrjað skeið
ber vorum guði að gjalda.

Hlýðum á lífsins ljóð,
líðandi tímans flóð
hvetur að vinna og vaka,
~~fram kallar fögur stund,~~
fram saman menn og sprund,
höndum og hjörtum að taka.

Stórt er vort skylduskeið,
skjótt er vor stutta leið
runnin að eilífðar rúmi,
vökvum því veika rós,
vor meðan sendir ljós,
senn kemur haustið með húmi.

Signandi nýárssól,
sendu oss frið og skjól,
viljann og vaxandi menning,
göfgaðu geð og mál,
glæddu í hverri sál,
heilnæma hugsun og kenning.

## VALDSMAÐURINN.

Þú valdsmaður hái með virðinga krans,
þér veröldin stígur sinn fínasta dans,
og hljómfögur lofkvæði leikur;
en tíminn er hraðfleygur, hérvistin stutt,
hið hæsta sem lægsta á burtu er flutt,
því heimur er valtur og veikur.

Á valdsmannastóli þér virðing er sýnd,
þín vegferð á jörðu er blómrósum krýnd,
við glauminn og ginninga niðinn;
en samt ertu dauðlegur maður og mold,
þín móðir, hin kalda og þögula fold,
þig byrgir að lokunum liðinn.

---

## ÞAÐ BLÓM MÉR VÍSAR LEIÐ.

Þá brosti vor með skyn og skraut
og skjól og gleðilag,
hún mamma gaf mér blóm á braut
eg ber það enn í dag.

Við frost og él á farnri braut
til fulls það aldrei dó;
í gegnum söknuð, sorg og þraut
mér sendi frið og ró.

Nær lífsins öldur herða hljóm
og hóta neyð og þraut,
þá lýsir þetta litla blóm
með líkn og yl á braut.

Á dimmri stund það birtu ber
í brjóstið allra lengst,
og bezt það jafnan brosir mér
hvar brautin mín er þrengst.

Þá kólnar hönd og klöknar geð
og kvöldið hylur skeið,
í hinsta sinn á bana beð
það blóm mér vísar leið.

## NÝJA ÁRIÐ.

Blánar fyrir blíðum degi,
bjarmi roðar grund og tind;
enn þá rís í austurvegi
alda ný á tímans lind;
hljómur berst til hæstu fjalla,
hjörtun brennir von og þrá,
meðan liðin atvik alla
instu munarstrengi slá.

Dagur nýjan dug oss gefur,
drotni fellum þakkar-tár,
liðið stríð í gleymsku grefur

geislum fágað náðar ár.
Skyldan hvetur fram til frama,
felum ekki lánað pund;
alt af gildir orðið sama,
aldrei bíður fengin stund.

Morgungeislar glaðir breiða
gullinn hjúp á kaldan snæ;
þannig öldur lífsins leiða
ljós á mannsins vonar-sæ.
Það er stjarnan þrótt sem gefur
þegar stefnt er hátt og rétt,
þyrnibrautir blómum vefur,
bölið þyngsta verður létt.

Stígum fram í frelsis nafni,
fellum aldin vanans tröll;
látum þor og ljós í stafni
liljum prýða munarvöll.
Réttum karlmanns hönd og hjarta
hverju því, sem mæta ber;
sterka viljans stálið bjarta
stærstu þrautum meira er.

Alt hið góða, göfga, háa,
gylli tímans nýju braut.
Alt hið litla, lága, smáa,
líði djúpt í gleymsku skaut.
Kærleiksgyðja strengi stilli,
stjórni verki, hug og önd.

Yztu heimsins enda milli,
eining flétti segulbönd.

---

## KVÖLD.

Himintjöld með blikið blítt,
brosa köldum vogi,
sumarkvöldið signir frítt
sólar-öldu logi.

Glaum í náðir nú er breytt,
næring þjáðu, smáu;
þannig háð er alt og eitt
Alvalds ráði háu.

## MORGUN.

Nætur færast burtu bönd,
blund sem væran tefur,
morgun skær um lög og lönd
líf og næring gefur.

Bægjum kvíða, burt er nótt,
byrjum stríð á vegi,
gefna tíð nú tökum fljótt,
tíminn bíður eigi.

---

# EG GLEYMI ÞÉR ALDREI.

Þú leiðin mín farna, ó liðin bernsku stund,
með líf og fjör og vonargeisla bjarta;
þótt tíminn sé breyttur, já, líka sál og lund,
þín lifir minning fersk og kær í hjarta.

Já, tilfellin lifa um liðið æskuskeið,
þau letruð standa djúpt á hjartans spjaldi,
á stöðvunum kæru þar létta gekk eg leið,
og leikföngin með bernskuvinum taldi.

Þar lék eg mér glaður í blíðum vonar-blæ,
um blómaríkan lund á hlýju vori;
þá brosti hver alda á björtum lífsins sæ,
og bauð mér vinarfaðm í hverju spori.

En tíminn er breyttur og burtu liðið vor,
með blómin fríð og geislaskinið varma;
mér finst eg nú þreyttur og þungt er sérhvert spor,
og þokuský á hverjum vonarbjarma.

Þótt tímarnir breytist og blikni rós í lund,
og beisk og köld sé stundum lífsins vaka,
eg gleymi þér aldrei, mín glaða bernsku stund,
en grátið eigi fæ eg þig til baka.

Ó, líknsami faðir, mér gef þú barnsins geð,
og gleðiljós frá árdagsstundu minni,

nær heimsins frá glaumi að grafar þöglum beð
eg geng til hvíldar þreyttur hinsta sinni.

---

## LANDSÝN.

Frá hrannarsölum land í fjarska lít eg,
sem lyftir mér á arnar reginflug,
á meðan sannrar sælustundar nýt eg,
mér sendu, Bragi, andans fjör og dug;
eg heyri óminn: lækir, fossar, lindir,
nú ljóða djúpt sinn forna hetjuóð;
já, fyrir augum margar svífa myndir,
sem mæna yfir tímans bylgju flóð.

Hvað sé eg? Landið faðmað ránarfeldi
og fjöll er spegla sig í himins lind,
með jökulhjálm og hraunin þrungin eldi.
Ó, hvar er, veröld, tignarlegri mynd?
Hvar áttu, Saga, sælli kappa-tíðir,
hvar sungu stálin skærra sigurlag,
nær hjá þér bygðu liðnir hetju-lýðir,
sem leiftra geislum fram á þennan dag?

Nú sé eg landið, feðra minna foldu,
með fræðin helg, er gylla tímans sæ;
þó fokið hafi fræ úr Gunnars moldu,
þau frjóvgast enn og halda sínum blæ;
því alt af fæðist frægðin ný og hreysti,
sem falla geislum kalda jökulrönd;

í gildum taugum norrænn lifir neisti
hvar niðjar Ingólfs byggja heimsins lönd.

Ó, kondu sæl! mín fósturgrundin forna,
þinn frægðar geisli lýsir enn um braut,
þótt stundum hafi höndin grimmra norna
þér haldið fast við myrkur, slys og þraut,
þér drottinn fæddi drengi til að stríða,
sem dugðu bezt þá geysti neyðin hæst;
nú roðar himinn röðull betri tíða,
ef ráð ei bresta, gullinn sigur fæst.

---

## Á LEIÐ AUSTUR UM HAF.

Yfir þrungið Atlanzhaf
öldu- skeiðar -hestur;
háum þiljum horfir af
hugur minn í vestur.

Endurminning ómar kær
inst í hyggju ranni;
þar sem fagur brosir bær,
börn og mætur svanni.

Hafið kalda nær og nær
nötrar mínum barmi;
mig hver alda færir fjær
fögrum vinar armi.

Til þín mænir munarsjón,
  mæra vonarstjarna,
ó, þú væna Vesturfrón,
  vaggan minna barna.

Þér eg helga eitt og alt,
  yndi lífs og tárin,
höpp og skaða, heitt og kalt,
  huga, mál og árin.

Við þitt hlýja hjartaslag
  helzt eg kýs að sofna,
þegar hinsta heimsins dag
  holdsins viðjur klofna.

---

## Á STIGABERGI 1907.

Nú hljóma þúsund hörpu ljóð
frá höllum bernskudaga;
eg lít um grund og lagar flóð;
frá liðnum tíma Saga
mér bendir á hið blíða vor
og blóm á þroskaskeiði,
þá sólin hló við sérhvert spor
í sælli vonar heiði.

Ó, heill þér, stóra Stigaberg,
í straumi lífsins tíða
þú stendur fast á fornum merg;

hér fýsir mig að bíða
og líta yfir liðna braut,
er lá hér einu sinni,
á meðan engin þekt var þraut
né þrá á vegferð minni.

Þú tignarlega Tröllaskarð,
með trausta faðminn, hlýja,
eg eitt sinn kær þinn vinur varð
og vil það endurnýja;
hér sat eg marga sumarstund,
þá sólin gekk til viðar
og blómin hneigðu blöð að grund
í blundi næturfriðar.

Um himinn, fold og hrannargeim
var heilög kyrð og ylur;
þá var eg sælu hrifinn hreim,
sem hjarta barnsins skilur.
En tíminn leið, eg barst á braut
úr blómafaðmi þínum;
nú, eftir langa leit og þraut,
eg lít þig augum mínum.

Hvað sé eg? Alt er orðið breytt:
mín æskurós er kalin
sú höll, sem áður skein mér skreytt,
er skuggamyndum falin;
en aftur sé eg annað nýtt,
sem eykur gleði sanna:

að stóra skarðið stendur prýtt
með stólpum ritsímanna.

Nú roðar fyrir fegri tíð,
um framsókn lands og menning,
og vanans hverfur húm og stríð,
en heilnæm drotnar kenning;
og böndin tengja strönd við strönd,
hið stóra blandast smáu;
og bróðir réttir bróður hönd,
svo bifast fjöllin háu.

Mig kallar burtu komin stund
frá kærum æskudölum;
eg kveð þig bali, berg og grund
hjá björtum ránar sölum;
og þótt eg byggi fjarri fold,
mér fylgir ykkar gleði
unz þagnar mál og hnígur hold
að heljar svölum beði.

---

## KVENFÉLAG TJALDBÚÐAR-SAFNAÐAR.

Þér heiðurskonur, kryndar von og dáð
og kærleiksyl, sem bræðir lífsins klaka,
er réttið hönd og heilnæm vina-ráð,
og hjálpið til að stríða, sigra, vaka.

Þið hafið lengi starfað vel og strítt
og stefnt með hug og dug að sama miði;
þó einatt væri gatan þung og grýtt,
þið geymduð trú og von, sem kom að liði.

Við þökkum ykkar stóra, fagra starf
og stríðið, margri raun og þrautum blandað
það gefur niðjum eilíft blóm í arf,
sem ekkert heimsins kuldaél fær grandað.

Eitt vinar-orð, sem berst með tímans blæ,
er blóm á leið þess harmandi og snauða;
hvert göfugt verk er gull á mannlífs sæ,
sem glóir yfir takmörk heims og dauða.

Af instu rót vér óskum hverja stund,
já ungir, gamlir, bæði sveinn og meyja,
að enn þið rétta megið vinarmund,
og með oss vel og lengi stríðið heyja.

---

## MANSÖNGUR.

Gældu braga gullin dís
geðs um haga ljósin;
þér nú laga ljóð eg kýs,
láar daga rósin.

Hátt þó lengi hljóð um kvöld
hljóminn strengir drýgi,

störf mér þrengja þúsundföld;
það er engin lýgi.

Æsku blíða fölnar fjör,
fram þar líða árin;
ellin bíður köld með kjör,
kvalir, stríð og sárin.

Gleðitjón og tregi þver
títt á sónar legi;
óðs við tón þá ógna mér
engin ljón á vegi.

Brags á vengi hót ei hér
hrund né dreng skal særa,
því fær enginn meinað mér
mærðarstreng að hræra.

Hver, sem óði amast við,
ei hið góða þekkir;
er hjá þjóðum þrælmennið
það, sem gróða hnekkir.

Sundrung eyðir sæludag,
sorta skeiðið klæðir;
eining breiðir heillahag
heims á leið og græðir.

Kærleiks-tárin krýni hrein
kaldar bákur tíða;

græðum sárin, mýkjum mein,
meðan árin líða.

Þýtur knör að þagnar skör,
þreytuörin stækka,
lífs við kjörin lýist fjör,
ljóð á vörum fækka.

Bragar þráðinn brýt eg minn,
bresta ráð að vaka,
fofnis láða foldin svinn,
fjör vill náðir taka.

---

## FRAM Á VÖLLINN.

Fram á völlinn, fram á völlinn,
fram á völlinn, menn og sprund,
hefjum merkið móti sólu,
miðum hátt á frjálsri grund;
starfsvið blasir stórt við sjónum,
stundin býður þúsund gjöld,
fram á völlinn, fram á völlinn,
frama, sigur auð og völd.

Fram með huga, hönd og tungu,
hrausta þjóð, á nýrri lóð,
fóstran unga, frjálsa, sterka
flytur mildan vonar-óð;
víð er foldin, frjósöm moldin,

fléttum gildan sigur-krans,
skreytum þjóðlífs skærstu perlum
skjaldarmerki þessa lands.

Notum tímann, nú er dagur,
nóg er öllum gefið rúm,
látum menning, líf og hreysti
leiftra gegn um tímans húm;
burt með doða, svefn og sundrung,
svik og hræsni, víl og tál;
inn með sigur, sól og gleði,
samtök frið og kærleiksmál.

Norræn þjóð í nýrri álfu,
nem, þú lífsins dular-óð,
vertu sönn í sál og verki,
sýndu djörfung, hug og móð,
hvað sem líður starfi, stefnu,
stöðu, ment og trú oss hjá,
elskum landið, bindum bandið,
bræður sama stofni frá.

Fram á völlinn, fram á völlinn,
fram að tryggja niðjum skjól,
þreytum skeiðið, áfram, áfram,
upp á lífsins sjónarhól;
vökum, tökum tíð, sem líður,
treystum mildi gjafarans;
byggjum hallir, bindum allir
blóm í krans vors nýja lands.

# DRENGURINN MINN
## í skólagarðinum.

Í garðinum eg lít á börnin leika
svo létt og glöð á vorsins blómatíð,
af þrá og trega titrar hjartað veika.
Þar talar bæði liðin sæld og stríð.

Í þennan garð svo þrátt eg augum rendi,
á þessum stað eg átti lítinn dreng,
er ljós og yl á leiðir mínar sendi,
og lífsins hrærði dýpsta vonar-streng.

Með bros á vörum, von í léttu hjarta,
sem viðkvæm æskustundin ein á til,
hann lék sér þar um bernsku reitinn bjarta,
við blómin nærð af dögg og sólar yl.

Hann lék sér margan leik í þessum garði,
og leikbræðrunum var hann jafnan kær,
og því er von að votti fyrir skarði:
Þar vinur stóð, sem nú er horfinn fjær.

Já, dauðinn kom að dyrum fyr en varði,
og drenginn litla hreif í faðminn sinn,
nú leikur hann í himins skólagarði,
þar hrynja engin tár um vinar kinn.

Þú gefur, tekur, tjáir ei að klaga,
þín takmörk, drottinn, enginn sér né veit,

hin bezta gjöf, sem gafst mér lífs um daga,
er geymd í mínum hjartans skólareit.

## HAUSTVÍSUR.

Haustsins öldur hrolli með
hrista tjöldin skýja,
föl að köldum banabeð
blóm á kvöldi flýja.

Fagurt láðið fellir skraut
frítt, sem áður gljáði;
alt er háð á heimsins braut
himins náðar ráði.

## LIT VESTURFARA.

Vestur, vestur Atlanz alda
óðum fleyið ber,
gleði-sunnu geislar falda
gulli breiðan ver;
brátt á enda leiðin líður,
landið brosir mót,
sem að fósturbarminn býður
bæði hal og snót.

Lyftið huga drósir, drengir,
dags við sólarglóð,
inst í hjörtum hljóma strengir
hraustan sigur-óð;
norræn þjóð í nýju landi
nú skal yrkja reit,
sem að helgu bindur bandi
bræðra vorra sveit.

Þér, sem fjarri leitið landa
lífs um breiðan ál,
geymið norrænt geð og anda,
göfgi, þrek og mál;
það mun lengst og ljúfast hljóma,
lýsa fram á kvöld,
sveipa fögrum sigurljóma
sögu vorrar skjöld.

---

## Á HEIMLEIÐ.

Yfir sollinn hrannar hyl
hleypur fríða skeiðin;
vestrið hlýjum andar yl;
óðum styttist leiðin.

Móti flæði brosir ból,
—blíðu nálgast fundir.—
geislum klæðir sigur-sól
sundin, skóg og grundir.

Bráðum kæri bærinn skín.
—blikar tímans lögur,—
þar sem björtu blómin mín
brosa hrein og fögur.

---

## Á LEIÐ UM EYRARSUND.

Glaðnar lýða lyndis-hlað,
lækkar stríði boðinn,
Dana fríðu fróni að
fögur skríður gnoðin.

---



## STÖKUR.

Allir dagar eiga kvöld,
alda streymir bára,
kveð eg Hafnar-kvenna fjöld
kossi saknaðs tára.

Vikan þessi var mér hlý
vinskap þeirra bundin,
hvergi víðri veröld í
veit eg betri sprundin.

---

## TIL FRÆNKU MINNAR.

Á meðan vermir vorið
og vonarsunna skín,
til heilla hvert eitt sporið
sé hafin leiðin þín;
haf trú á mátt og megin,
og mildi gjafarans,
það vísar gæfuveginn
og veitir sigur-krans.

---

## TIL MARÍU RÖGNVALDSDÓTTUR.

Heill sé þér um heimsins braut,
harmar engir svíði,
hjá þér dygða skíni skraut
skært í sæld og stríði;
tæpt og veikt er tímans hjól,
tefldu þér í haginn
meðan vorsins vonarsól
vermir ævidaginn.

## SKRIFAÐ Í PÓESÍ-BÓK BARNS.

Eins og blómið, laugað daggar lind,
lýst af sól í helgri vorsins mynd,
ert þú litla, ljúfa, fríða mær,
lífs á morgni, saklaus, hrein og skær.

Heims um braut þér lýsi vonar-ljós,
lífsins dygðir, æðsta sigurhrós.
Drottinn, sem að sendir stund og ár,
signi þig í gegn um bros og tár.

---

## ÞÚ MÆTTIR MÉR Á VEGI.

Þú mættir mér á vegi,
svo mjúk og hrein og blíð,
og síðan lífs á legi
mér léttir sérhvert stríð.
Þitt hlýja geð í heimi
og hönd var aldrei tál;
eg þakka það og geymi,
unz þrýtur fjör og mál.

---

## TIL G. HALLDÓRSDÓTTUR.

Þú hugljúfi svanni með helga von og þor
og hönd, sem ryður mörgum steini' úr vegi,
á leiksviði heimsins, við lífs þíns sérhvert spor,
þér lán og virðing flétti blómasveigi.

Þú tiltir þér aldrei á tá við glys og prjál,
með takmark sett að lina böl hins snauða;
í sterkbygðu vígi er stór og göfug sál,
sem stafar geislum yfir líf og dauða.

---

## STAKA.

Svifinn burt er svanurinn,
sætar lóur þegja;
nú er kaldur kossinn þinn
kæra Garðar eyja.

## FRÍÐA STÚLKAN.

Ástin hossar hug og lund,
holdið krossar snörum,
fjörið blossar baugs í hrund,
brennur koss á vörum.

## Í PÓESÍ-BÓK UNGRAR STÚLKU.

Í þína bók mig brestur list að skrifa,
hins bezta þó ég gjarnan óska vil:
að þú með Billa lengi megir lifa,
og leika þér við helgan sjafnar yl.
Þér fylgi heill um huldar lífsins slóðir,
og hlý sé jafnan tímans bylgjuraust,
já, vertu fjölda fríðra barna móðir,
sem fága geislum þinnar æfihaust.

# FLUTT Í SKILNAÐARSAMKVÆMI Í WINNIPEG.

1. Nóv. 1907.

Um ver þú sigldir vestur
að Vínlands frægu grund,
og þóttir góður gestur
á glaðan vina-fund,
við þektum mjúka málið,
svo munarblítt og heitt,
því enn' er andans stálið
sem áður skært og beitt.

Hér fyr með oss þú undir,
og enn þess minnumst við,
og léttir lífsins stundir
og lýstir mentasvið,
þig flutti aldan austur,
en ei var slitið band,
þinn hörpu-strengur hraustur,
bar hljóm í þetta land.

Vér elskum fræðin fögur
og feðra mál og land,
þó leiðir skilji lögur,
ei leysist vina-band,
hvert fræ úr fósturmoldu
sem flytur tímans blær,
skal vermt á Vesturfoldu
það vex, og blómið grær.

Til heiðurs gesti góðum
við gleðjumst hér í kvöld,
og bróðurhendi bjóðum,
þó bresti makleg gjöld.
Leik heill á hörpustrengi
við helga mímis glóð,
og lif þú Einar lengi,
að lýsa frónskri þjóð.

---

## BAKKUS

Ölið freyðir, engum leiðist,
alt er vott og gott,
heimur brosir bjartur,
borðið margur kvartur,
skoppar skjótt og flott.

Glösin hringja, gleðin klingir,
gamli Bakkus hlær,
aldrei sigrar ellin,
enn er kallinn hnellinn,
gleiður sem í gær.

Bakkus hillir, hug og fyllir,
harms og gleði lind,
dýpstu draumar kífsins,
dýrstu perlur lífsins,
mála skýra mynd.

Bakkus kætir geð og grætir,
gjörir dimt og bjart,
eðli mannsins örfar,
eykur þrótt og fjörvar,
þó það kosti kvart.

Bakkus kíminn, kann að glíma,
kúnstin er að sjá,
tökin hans og taka
tauminn í og vaka
annars þrautir hjá.

Látum Bakkus, frjálsan flakka,
förum nú á stað,
bezt er tár að telja,
takmörk öllu velja,
sagan sýnir það.

---

## Í HÖFN.

Með drósum hér á Danagrund
er dýrðarfult að una,
í ljúfum draum þar líður stund,
er lífgar þreyttan muna;
og þó það kosti krónurnar,
eg kæri mig ei parið,
að fylla þyngstu þarfirnar,
já, því er svona varið.

En meðalhófið hentar bezt,
því hál er stundum gata,
og margur hefir hryggur sézt,
er hugði sér að rata;
og því er bezt að gæta glögt
að ginninganna bárum,
því oft er gæfu snúið snögt
í sneypu, vætta tárum.

## DANSKI STÚDENTINN.

Hann sigldi til Englands um svalkaldan geim,
og sá aldrei neitt utan koppinn,
á meðan hann barst yfir bárunnar reim,
hann bjó niðri' í kojunni loppinn.
Svo aftur til baka í Höfn fór hann heim
með holdlausan, fleiðraðan kroppinn,
til himinsins fórnandi höndunum tveim,
að hann var úr kvölunum sloppinn.

## TIL ÍSLANDS.

2. Ágúst 1905.

Sit heil á stóli, Heklu-loga drotning,
við heimsins norðurskaut með hvítan fald,
þín börn í fjarlægð beygja sig með lotning,
ó, bezta móðir! þig hið smáa gjald:

Hér fljóð og sveinar stilla dýpsta strenginn,
á stund, sem nú er helguð þér í dag,
svo hreina gleði orð fá máluð engin,
nær andinn spilar bernskustunda lag.

Ó, herðið flug og sönginn, sumarvindar,
og svífið geist um fold og ránartjald,
til austurs, þar sem Íslands fránu tindar
við uppheims sali teygja hvítan fald,
og heilsið firði, fossi, dal og hlíðum,
af fjarri strönd, með hlýjum vinar óm,
og þrýstið kærum kossi ástarblíðum
á kátan lund með sætan fugla hljóm.

Við heyrum mildan hljóm, sem frelsi boðar,
um hraustar taugar streymir göfugt blóð,
og morgungeisli móðurskautið roðar,
þar mentagýgjan syngur vonar óð,
og eftir þúsund þrautir, sár og trega
nú þruma ljóð frá hverjum dal og tind,
og fóstran kæra teygir tignarlega
úr tímans djúpi frægðar gylta mynd.

Ó, vertu blessuð, eyjan vorra Áa,
þess óska fjarlæg börnin trútt og heitt,
á þínum tindum tignar-merkið háa
við tímans öldunið sé perlum skreytt;
þig ætíð vermi andinn göfgi, forni,
sem aldrei gátu fjötrað nokkur bönd,
og sýndu það á þínum hlýja morgni,
að þú átt blóm við kalda jökulrönd.

---

## HANN LEITAR.

Hann leitar í huganum léttur,
á leiðina sólgeislum slær,
mót auganu brosir hver blettur,
og blómið í hlíðinni grær.

Og vorið með vonir og gróða,
þar vefur sitt dýrðlega skraut,
og fossar og lækirnir ljóða
um lífið á æskunnar braut.

Svo gengur hinn ungi með gleði,
því gatan á vori er létt,
þá lífsvonin leikur í geði
og leiðin er gimsteinum sett.

Hann leitar og veginn sér velur,
en veit ei um ókomið skeið,
því forsjónin tímana telur
og takmarkar sérhverjum leið.

Hann leitar, en stundirnar líða,
á leiðina kvöldskuggum slær,
og kennir nú þreytu og kvíða,
í kuldanum gleðinni fjær.

Svo streymir fram stundanna alda
með straumþungum breytinga nið,
og ber hann að beðinu kalda,
með boðskap um eilífan frið.

Hann sofnar við faðmandi friðinn,
með fölva og tárþvegna brá,
og leitin og þrautin er liðin,
og lífið með vonir og þrá.

---

## TIL MÓÐUR MINNAR.

Kæra móðir! mér í huga skín
margra daga æfileiðin þín:
Sæla, gleði, sorg og hretin köld,
sumar, vetur, morgun, ljós og kvöld.

Þú sem hetja hefir lengi stritt,
hörð þó stundum væri braut og grýtt:
níu tugi nálgast árin þín,
nóttin kemur bráðum, leiðin dvín.

Aldrei brosti auðna heimsins stór,
ygldur stundum freyddi lífsins sjór;
þú með helga trú og von og traust
tókst því öllu rótt og kvíðalaust.

Ó, eg þakka þína ævitöf,
þú mér sýndir veg um lífsins höf,
fyrsta bænin, fyrsta rödd og mál,
frá þér kom, er lyfti minni sál.

Sé eg barnið, hlý þar móðurhönd
himnesk vefur lífsins fósturbönd,

vermir, græðir sérhvert mein og sár,
signir fagurt bros og þerrar tár.

Þegar lýsti lífsins blíða vor,
leiddir þú og studdir sérhvert spor,
og það lag, sem lékstu þá mér hjá,
lengst mun hljóma strengjum mínum frá.

Meðan endist mál og fjör og raust,
mjúkt og blitt þér verði ævihaust;
þegar hljómar kallið hinsta kvöld,
krýna starfið launin þúsundföld.

---

## HÉR RÍKIR GLEÐI.

Hér ríkir gleði, ást og friður inni,
þar allir tengjast bræðrahug og mund, -
vér heiðurs-konum helgum þetta minni,
sem hafa kallað oss á þennan fund,
og óskum þess, nær mótgangs aldan mæðir,
að mildur drottinn greiði þeirra spor
við háleitt starf, sem göfgar líf og glæðir,
þeim gefist lengi kraftur, fjör og þor.

---

# Brúðkaupsvísur.

Hvergi ljóma lífs á sandi,
ljósin fegri nein,
en þars ástin bindur bandi
blíða mey og svein;
vinahjörtu vonardagur
vefur geislakrans;
lífið gyllir heillahagur,
heimur stígur dans.

Lífsins öldur stríðar streyma,
stundum koma él;
þeir, sem aldrei þessu gleyma,
þeim er borgið vel;
von og traust og trú í stafni
tendra ljós á braut,
sigrast þá í sannleiks nafni
sérhvert stríð og þraut.

Heill þér, sveinn, og mæra meyja,
meðan endist braut,
helga dísin, fagra Freyja,
færi blóm í skaut;

ætíð krýni auðnan bjarta
áform, verk og mál,
þess vér óskum þýtt af hjarta,
það sé ykkar skál.

---

## BRÚÐHJÓNAKVÆÐI.

G. Jónasson og Th. Friðbjörns dóttir.

---

Himinborna, fagra, milda freyja,
fær þinn töframátt ei staðist neinn,
fyrir þér með lotning höfuð hneigja
höfðingjarnir jafnt og kotungs sveinn,
hal og mey þú mjúkum vefur böndum,
málið þitt er hreint og laust við tál;
hvað er sælla' en hvíla í þínum höndum,
hvað fær betur lífgað mannsins sál.

Signi gæfan svein og meyju bjarta,
sem oss hafa kvatt á þennan fund,
það er okkar ósk og von af hjarta,
ykkar hagur blómgist hverja stund;
drottinn alla ykkar blessi vegi,
æfistarfið verði þýtt og létt,
veiti líkn og lið með hverjum degi
lífsins skyldum til að gegna rétt.

Kæru brúðhjón! lifið vel og lengi,
lán og friður krýni æfibraut,
heilög ást og eining saman tengi

ykkar líf, í gleði jafnt sem þraut,
eitt sé hjartað, einn sé beggja vilji,
áform, hugur, ráð og verk og mál,
enginn hlutur ykkar vegi skilji,
ekkert, nema dauðans bitra stál.

---

## G. HANSON OG L. BERGMAN.

Á lífsins vonar voga
nú varpar geislum sól,
og gleðiljósin loga
á lofnar veldisstól;
hér drotnar ró í ranni,
hér ríkir sól og vor;
hér mey er gefin manni,
og markvert stigið spor.

Með tengdum hug og höndum,
og hreinum trygðar-eið,
þið bindist helgum böndum
og byrjið hærra skeið;
þú sól á sumardegi,
þú svása vetrar skraut ,
þú vor með blóm á vegi —
þeim varpa heill í skaut.

Þú sveinn og brúður bjarta,
nú bindið saman ráð,
þá ein er hönd og hjarta,

er helgu marki náð.
Ó, ljóssins landa sjóli,—
því lífsins braut er hál,—
geym þau í þínu skjóli.
Vér þeirra drekkum skál.

---

## P. DALMAN OG E. MARKÚSDÓTTIR.

Hvar ljómar fegri lífsins vonardagur,
hvar lýsir skærri heimsins stunda sól ,
hvar göfgast meira hugur vor og hagur,
og hvar á vegum þekkist betra skjól,
en þar sem mey og maður tengjast böndum,
og mæla þessi stóru guðdóms orð:
"Með einum vilja, huga, sál og höndum
við heyjum lífsins tafl við sama borð."

Og því skal hefja hljóm frá strengjum Braga
og helga vonum þessa björtu stund,
og óska þeim og brúði sælla daga,
sem boðað hafa þenna gleðifund.
Ó kom þú, herra lífs og allra lýða,
með ljós og frið og ást og náð á braut,
þá styrkir jafnt það stríða sem hið blíða
og starfið krýnir eilíft sigurskraut.

Þér, brúðhjón ung, sem byrjið nýja vegi,
þó björt í heiði ljómi vonarsól,—
er skyldan þung á lífsins breiðum legi,

og líka stundum brigðult gæfuhjól.
En alt er gott, ef guð er æ hinn þriðji,
þá grandar ekkert heimsins vald né tál.
Og hann um allar stundir ykkur styðji
að stefna rétt—já, það sé ykkar skál.

---

# Erfiljóð.

## ÓLAFUR MARKÚSSON.

Dáinn 25. Ágúst 1901.

Valt er heimsins vald og gleði,
veikt er líf og hold,
eins og lítið blóm á beði,
bliknar, verður mold;
fyr en varir fallin dökknar
fögur lífsins rós;
streyma tárin, tíðum slökknar
tendrað vonarljós.

Þrátt nær sýnist lukka lífsins
ljós og gleðin stærst,
þung er báran þrautakífsins
þá hvað allra næst;
stormar æða, bylgjan brotnar;
breyting alt er háð;
öllu stýrir, aldrei þrotnar,
Alvalds hulda ráð.

Sonur, þú ert horfinn héðan
hels í þögult skaut,
sem um tíma lífsins léðan
lýstir mína braut;
þú, sem varst mín von og gleði,
varst mér nær því alt. —
Drosnar sorg í döpru geði,
dimt er líf og kalt.

Djúpt þó hjartasárið svíði
sú er huggun mín,
nú þér ofar öllu stríði
eilíf sæla skín. —
Stundin líður, loksins næ eg
lendingu hjá þér,
bót þá minna meina fæ eg
mér sem blæddu hér.

---

## ÞÓRUNN SIGURÐARDÓTTIR.

Í friðri sveit með fjöllin há
og fossa nið í dölum,
þar laufin teigir lilja smá
við lind á grænum bölum,
og glóey breiðir geislakrans
um gullnar vorsins nætur,
og stoltar bárur stíga dans
við sterkar kletta rætur.

Þar lékstu barn og móðurmund
þér mjúkt að hjarta þrýsti,
með vögguljóð, á vonarstund,
þá vorið fagra lýsti.
Svo liðu þýtt við ljós og skjól
með lífsins bárum árin,
en bakvið ský sig framtíð fól,
með fals og sár og tárin.

Enn tíðum bliknar fjóla fljótt,
sem fríða vorið nærði;
já, snemma haustsins hélunótt
þín helgu blómin særði.
Þér birtist heimur falskur, flár,
sem fagra dygð ei metur,
er breytti sæld í beiskjutár
og blómastund í vetur.

---

Ó, vertu sæl, og sofðu rótt
frá sorg og glaumi liðin;
þitt leið í heimi skeiðið skjótt,
nú skýlir gröf með friðinn.
Þín ást var hrein, en harmi skygð.
sem hjörtun mannleg þreytir;
en vinir þakka þína trygð,
sem þögult leiði skreytir.

---

## GÍSLI ÞORLÁKSSON.
Dáinn 6. Júní 1903.

Sól er hnigin, komið kvöld,
kalt er lík á fjölum,
sveitin grætur gildan höld,
grúfa blóm í dölum,
drúpir valinn bóndabær,
byrgður sorgar-húmi,
vinir tárast, helja hlær
hörð of dáins rúmi.

Dauða-fregn 'um dal og völl
dynur þungum rómi,
hinstu kveðju flytja fjöll
föllnu sveitar-blómi,
sem á traustum stofni stóð,
styrk og ljósi vafið ,
nú við táralaug og ljóð
lágt í mold er grafið.

Stórt er höggvið skarð í skjöld,
skeið á enda farið;
þannig fé og fjör og völd
fellur veikt sem skarið;
þó að hverfi þrek og mál,
það er eitt, sem lifir:
mannsins háa, helga sál
hafin jörðu yfir.

Þeim er leið á lífsins dröfn
langa farið hefur,

víst er gott að hitta höfn
hvíld og ró sem gefur;
þegar endar ævi-verk,
eru launin goldin;
geymist vinar minning merk
mold þó byrgi foldin.

Fús þú varst að veita lið,
vinur æ þeim snauðu;
virtir háleitt mark og mið
meira gulli rauðu.
Nú er fræið fögur rós,
fengin eru gjöldin:
eilift sumar, líf og ljós
ljómar bak við tjöldin.

---

## EFTIR UNGA STÚLKU.
Undir nafni foreldranna.

---

Í gullnum lundi greri blóm
á geislaríku vori,
með gleði, fjör og ástaróm
og yl í hverju spori.
Og ekkert ský né skuggi þar
í skjóli fegurð huldi,
hið valta líf með vonirnar
sín vinarkvæði þuldi.

Og blómið greri, skin og skjól
það skreytti blöðum fríðum,
er döfnuðu við dögg og sól
á degi munarblíðum.
Þar æskulífið engu kveið
í ástar sælum draumi;
en hverfull tíminn léttur leið
sem lauf á bláum straumi.

Og þú varst blómið, blíða mær,
sem brostir lífs á skeiði:
Nú sorgarskýi svörtu slær
á sól í munarheiði,
að sjá þig hníga hels á reit,
þá hló við árdags bjarmi,
því svíða trega-sárin heit
í syrgjendanna barmi.

Við þökkum fyrir fylgd á braut,
sem fórst þú hérna megin,
með saklaust bros og bernskuskraut
þú breiddir ljós á veginn.
Við þökkum fyrir unaðsár,
sem alvöld náðin gefur.
Við þökkum fyrir sorg og sár;
það sama tilgang hefur.

Þótt vegir skilji stutta stund,
sem stjórnar alvalds kraftur,
sú vonarstjarna vermir lund,
að við þig finnum aftur.

Þá framar engin falla tár,
en friður ljómar veginn.
Þar hverfa mein og sorg og sár,
er sviðu hérna megin.

---

## KRISTJÁN HALLDÓR VOPNFORD.

Undir nafni foreldranna.

---

Huldu leiðir, lífsins vonar-bál,
lán og gleði, mæða, stríð og tál.
Ó þú djúpi dauðans regin sær,
dimma gröf sem enginn varist fær.

Vaxin blóm, sem breiða laufin fríð
björt þá ljómar vorsins sigurtíð,
falla skjótt í lífsins stundar leik
lágt til moldar visin, köld og bleik.

Völt og hál er heimsins stutta töf.
Herrann ræður lífi, tíð og gröf.
Sérhver stund er sterkum lögum háð.
Stórt og djúpt er himins leyndarráð.

Guð er með, þá gleðisólin skín;
guð er með, þá sorgaraldan hvín;
guð er með, þá gróa blómin fríð;
guð er með við haustsins dauðastríð.

Stórt er sárið, sorgin dimm og hörð,
sonur, þú ert lagstur nár í jörð,

málið þagnað, mundin stirð og köld;
minning fögur signir ævikvöld.

Þú varst ljúfur, traustur, laus við tál,
tæmdir glaður hverja reynsluskál,
breytnin sýndi sannleiksást og dygð,
sonarhlýðni, kærleiksþel og trygð.

Gleymist ei, þótt holdið hylji gröf,
hæsta lánið, eilíf sigurgjöf,
dygðin þín, sem skært á vori skein,
skreytti geislum sérhvert lífsins mein.

Klökk við þökkum þinnar ævi spor,
þetta stutta fagra, blíða vor.
Æðri leiðir ljómar von og ást,
land, þar vinir fegnir aftur sjást.

---

## HAFLIÐI GUÐMUNDSSON.

Undir nafni ekkjunnar.

---

Nú er leið til grafar gengin
gegn um ævi stríð,
nú er hvíld og friður fenginn,
fegri runnin tíð.
Nú er hjartað hætt að titra
heims á köldum sjó.
Nú er þrautin beiska, bitra
breytt í helga ró.

Önd mín þreytt í stríði stynur,
ströng er sorg og þrá.
Þrengir kosti, þungt er vinur
þér á bak að sjá.
Við þinn bana-beðinn krjúpa
börnin, hrygg í lund,
tárin hrein og heit þar drjúpa,
hjartans blæðir und.

Jafnan lífs á vegi varstu,
vinur, trúr sem stál;
Skyldust'rfin stiltur barstu.
sterk var mund og sál.
Fyrir trúa fylgd á kalda
flæði lífsins hér,
hafðu kæra hundrað-falda
hjartans þökk frá mér.

Þótt við hljótum hér að skilja
heims á reynslustig,
undir drottins vísdómsvilja
vil eg beygja mig.
Dauðinn kallar, hlýtur hníga
heilsa, líf og völd,
fyrir ljós á leiðir síga
lífsins skugga tjöld.

Meðan dapra daga tel eg,
drottins helgri náð
dimmum lífs á ferli fel eg
framtíð, hag og ráð.

Bráðum sígur sól til viðar,
sorga-meinið grær,
nær eg glöð í faðmi friðar.
finn þig vinur kær.

---

## PÁLL KRISTJÁN BJÖRNSSON.

Undir nafni móðurinnar.

---

Vér berumst eins og strá með straumi
að strönd sem veitir öllum skjól,
en mitt í værum vonardraumi
er vafin skýjum gleðisól.
Já, oft á vori blómin blikna
og byrgjast kaldri dauðans fold
í brjóstum hjörtun veiku vikna
og vinatárin signa mold.

En hvað er gleði, hvað er sorgin,
og hvað er heimsins lán og stríð
Því guð er skjólið, skjöldur, borgin,
er skapar hverjum ævitíð.
Og þegar bila böndin jarðar
og brotna fley á tímans sjó
þá breytast sár og sorgir harðar
í sælufrið og helga ró

Minn sonur kær, þín sorg er liðin,
þú sefur hulinn kaldri mold;
hin dimma gröf, sem gefur friðinn,

nú geymir laust frá þrautum hold.
Eg þakka fyrir fararnar leiðir,
þitt fagra vinarbros og mál;
sú endurminning birtu breiðir
á braut—þótt vonin reyndist tál.

Þó falli björk á blíðu vori,
og byrgi vini þögul gröf,
með hverju þungu þrautaspori
vér þiggjum nýjan styrk að gjöf.
Eg geng minn veg, þó sárið svíði
því sæl í hjarta lifir von;
mér brosir land að loknu stríði,
þar lít eg aftur horfinn son.

---

## KRISTÍAN DANAKONUNGUR.

Hver er dáinn? Danaból
dökkum slæðum tjaldar;
geislum fágar friðarsól
fallið merki skjaldar.

Kristján sjóli, það ert þú
þínum horfinn lýði,
Dana skjól og Dana trú,
Dana ljós og prýði.

Sæmdarverkin sólu mót
sigurmerki tjalda,

nú þín blóm frá nýtri rót
Norðurlöndin falda.

Bitur sorg frá brjóstum inst
byrgir öðling dáinn,
hæztu völd og hreysi minst
hjúpa tárum náinn.

Fregn við sára fósturmold
faldinn beygir háa,
þakkartár af fjarri fold
flytur aldan bláa.

Fyrir skjólið hjarta hlýtt,
heillaráð og tryggðir,
friðarsól er signdi blítt
svalar Snælands bygðir.

Gráttu sjót þinn gram í mold,
grafðu þökk á skjöldinn.
Drottinn gaf þér, Danafold,
dreng, sem hæfðu völdin.

Blítt að loknu lífsstarfi
lifir minning valda,
njóttu, Kristján níundi,
nú í friði gjalda.

Þú, sem drótt á stjórnarstól,
stiltir kærleikseldi,

hvíldu rótt, þín sögusól
signir Danaveldi.

---

Náhljóð gjalla, Norðurálfan stynur,
nötra björgin, viknar fold og sjár,
loftið dunar, lands og þjóðar vinur,
lofðung Dana, hvílir fölur nár.
Konungs höll og kotungs hreysið minsta
krjúpa lágt við öldungs dánarbeð.
Til að kveðja, kossinn gefa hinsta,
kom þú allur heimur, vertu með.

Gilda Bretland, Grikkland Rússaveldi
grams hjá leiði væta tignar brár;
nyrzt við skautið þrungið ís og eldi
Ingólfs hauður fellir saknaðs tár.
Frægur meiður foldar til er hniginn,
frjór sem greinum tengdi Norðurlönd,
röðull skær í svala djúpið siginn,
sem að hnýtti þúsund geislabönd.

Ástin, trygðin, göfugt geð og mildi
glóði blítt þar streymdi tímans lind.
Aldrei dygð á skærum veldis skildi
skein þér, Danagrund í fegri mynd.
Manstu konung, seg mér frá því Saga,
sem að stærri perlum skreytti leið,
háum, lágum hjartkær alla daga,
hugljúfur sem barn, en stór í neyð?

Danaþjóð, ó, stórt er skarð í skjöldinn,
skil og nem hve stór þér veittist gjöf,
dygð og sigur, virðing, lán og völdin
vefja blómum þína konungsgröf.
Signdu leiðið gaktu heim og gráttu,
gjaltu drotni helga þakkarfórn,
minning Kristjáns lengi lifa láttu,
ljósið, friðinn, kærleiksgeð og stjórn.

---

## BJARNI JÓNSSON.

Undir nafni ekkjunnar.

Ó þú lífsins tæpa töf,
tár og gleðistundir,
kaldi dauði, dimma gröf;
djúpar svíða undir,
þegar banabylgjan há
ber þá fregn að sofna,
vinir skiljast vinum frá,
veiku böndin klofna.

Svört og bitur sorga-nótt
sól og gleði hylur,
legg mér, faðir, líkn og þrótt,
lífið einn þú skilur.
Hopp og skaði, skin og él
skiftast fjörs á línu;

lán og mæða, líf og hel
lýtur valdi þínu.

Nú er hrausta höndin köld,
hjartað trygga brostið,
horfi eg á koldimt kvöld,
kólgu lífs og frostið.
Börnin hneigja höfuð sitt,
hreinu tárin streyma,
trausta föðurþelið þitt
þau í minni geyma.

Sofðu vinur, saknaðs tár
signa þögult leiði,
ei skal kvíða, herrann hár
huggar lífs á skeiði.
Farðu vel, eg þakka þér
þúsund gleðistundir,
þegar leið mín linnir hér
ljóma sælufundir.

---

## JACOB JOHNSON.

Undir nafni móðurinnar.

Blómið grær um blíðan vorsins dag,
bárur tímans syngja gleðilag,
þá er alt svo létt og ljúft og rótt,
ljós og friður, engin kuldanótt.

Minst þá varir kemur kveldið dimt,
kalt og snautt og vonarlaust og grimt,
blómið hnígur hels á kalda fold;
húmi sveipað verður duft og mold.

Hvað er vegferð vor á dauðans jörð?
Vonarneisti gegn um élin hörð,
bárufall á breiðum tímans sjó,
blóm, sem greri, feldi lauf og dó.

Æskan blíða, ellin dauf og köld
eiga sama takmark: lífsins kvöld;
ævidögum hulin stýrir hönd,
heimsins vald ei slitið fær þau bönd.

Þó oss virðist vinamissir sár,
vonargeislinn þerrar beiskju tár:
að vér síðar lífs við dýrðar lind
lítum aftur þá í fegri mynd.

Sorgin stríða særir veika lund,
sonur, þú ert vafinn dauðans mund,
nú er orðið myrkur, böl og mein
morgunroðinn þar sem áður skein.

Þín eg liðin þakka fyrir ár,
þíða brosið, vinargeð og tár,
ljósið blítt, er lífs á morgni skein,
leiðið signir endurminning hrein.

---

## STEINUNN JÓNSDÓTTIR.

Fyrir hönd dóttur þeirrar látnu.

---

Hvar sá eg fyrsta sólar ljós?
Hvar svaf eg fyrsta blund
Hver vermdi mína veiku rós
á vorsins morgunstund?

Hver græddi fyrsta sviðasár,
og söng mér vögguljóð?
Hvar glóði fyrsta gleðitár
í gegn um tímans flóð?

Það var hjá þinni móðurmund,
sem moldin byrgir köld;
nú endurljómar liðin stund,
við lífs þíns hinsta kvöld.

Við móðurbrjóst þín mjúk og hrein
þá mynd eg fékk að gjöf,
er sigrar gegn um sérhvert mein
og signir líf og gröf.

Þú treystir drottins mikla mátt
þá mæddi tímans hjól;
með barnsins gleði horfðir hátt
mót himins náðarsól.

Þitt verk á jörðu unnið er,
nú öndin fagnar þreytt;

eg geymi blóm, sem gafstu mér;
þín gröf er ljósum skreytt.

---

## ÞORVALDUR ÞORVALDSSON.

Hvað er gleði, glys og skraut?
geislaflug á bárum;
hvað er strit og stríð og þraut?
stund með nokkrum tárum;
hvað er æska, afl og fjör?
eins og veiku stráin,
sem til foldar fyrir hjör
falla köld og dáin.

Ó, þá stund, er stríðið hæst
stórum lofar sigri,
þegar vonar-gyðjan glæst
gullnum beitir vigri,
víst er sárt að sjá þann lágt,
sem að merkið reisti
fremst, og sýndi metnað, mátt,
manndómsþrek og hreysti.

Skjótt er brosi breytt í harm,
~~birtan hulin skýjum,~~
kalt þar vorið vermdi barm
vonargeislum hlýjum.
Þagnað málið hreint og heitt,
hljóður gullinn strengur,

andans stálið bjart og beitt
bærist nú ei lengur.

Þín var ævin að eins vor,
æsku laugað bárum,
framgjarn andi, fjör og þor
frægði þitt með árum
háleitt starf; en stund er háð
sterkum alvalds lögum,
nær sem heimtar hulið ráð,
hér er lokið dögum.

Þótt oss falli sárt að sjá
sól á morgni hníga,
og hve stundum fetin fá
fram er leyft að stíga.
Burt með sorg, því betra lands
brosir ljós í heiði;
fögur minning knýtir krans
kæru vinar leiði.

---

## EFTIR BARN.

Undir nafni móðurinnar.

---

Þá hretviðrin dynja og harmurinn sker
vor hjörtu í daganna stríði,
vér sjáum ei stundum hví sorgina hér
oss sendir þú, faðirinn blíði.

Já, vinirnir deyja, ei duga nein ráð,
vér dauðlegir syrgjum og þráum;
vor leið er til grafar, því lífið er háð
þeim lögum, sem breytt vér ei fáum.

Nú sofnaður ert þú, minn sonur hjartkær,
og sárin ei lengur þér blæða;
á vormorgni lífsins þú fluttur ert fjær
til friðarins eilífu hæða.

Þar fagnandi systkinin faðma þig heitt
á frjóvgunarlandinu blíða,
þau fagna að sorg þín í sælu er breytt,
þú saklaus ert búinn að stríða.

Á meðan eg lifi og líðandi bíð
á leið hér með syrgjandi vinum,
eg sé þig í anda, og senn kemur tíð
eg sé þig með blómunum hinum.

---

## VINAGRÖFIN.

Á litlum bæ við fagurt fljót
með frjálsan sumar-klið,
þar blómin skýla bjarkar rót
við blíðan nætur frið.

Þar lá í hvílu fölleitt fljóð
og feldi bitur tár,

í veikum æðum bærðist blóð
og brjóstið nísti sár.

Hún leit sitt fölnað lífsins blóm
þar lagt á kalda fjöl,
og guð einn skildi hjartans hljóm
og hennar sáru kvöl.

Til baka leit hún liðna tíð,
með lífsins sæld og tár,
en framtíð sálu brosti blíð
með boð um fegri ár.

Hún fann að stundin færðist nær,
með frið og sælu hnoss.
Ó, fjarri var þá vinur kær
að veita skilnaðs-koss.

Og andvarp leið til himins hljótt,
það herrann skildi mál,
og dauðinn kom um dimma nótt,
en dagur brosti sál.

Svo allra dauðinn endar harm,
þar eilífð tekur við.
Nú hvílir hún með blóm við barm
í blíðum grafar frið.

Og enn þá streymir fagurt fljót,
það finnur enga töf,

og blómin skýla bjarkar rót,
með blöð hjá vina gröf.

---

JON ÞORVALDSSON.
Undir nafni ekkjunnar.

---

Eg stari hrygg á heimsins ólgu fjörð,
að huldri strönd, er sérhvern boða flytur,
mér finst svo dauft og dimt og kalt á jörð,
og dauðans rödd svo ógurlega bitur.

Mér finst eg vera vonum öllum svift,
því vinarhönd er köld í moldu grafin.
Ó, kom þú, guð, með kraft, sem getur lyft
og kent mér leið, sem yfir jörðu er hafin.

Já, kenn þú mér að þakka þína gjöf,
hvert þrautaspor og gleðistund á jörðu,
í þínu trausti ganga fram að gröf,
og gleðjast mitt í dauðastríði hörðu.

Þú hefir kallað heim á sæluland
minn hjartans vin frá daga-stríði hörðu;
hve fljótt er stundum brostið ástar-band,
sem börnin veiku tengir hér á jörðu.

En eitt er það, sem ekkert slitið fær,
því yfir dauða ríkir lífsinskraftur,
og seinna ljómar sólin gleði skær,
þar sálir vina tengjast böndum aftur.

Ó, hjartans maki, hvíldu vært og rótt,
þig heimsins stríð nú sært ei framar getur,
þér börnin okkar bjóða góða nótt,
við búum saman eftir liðinn vetur.

---

## GLEÐILEG JÓL.

Gleðileg jól!
Ljósið um alheiminn ljómar,
lífið og friðurinn hljómar,
sigrandi sól.

Kærleikans jól,
líknandi lágum og háum,
lýsandi stórum og smáum,
signandi sól.

Frelsisins jól!
Líf yfir dauðanum drotnar,
dimman og vonleysið þrotnar,
nótt sendir sól.

Barnanna jól!
Hátíð, sem gleðina gefur,

guðlegum fögnuði. vefur
alheimsins ból.

Ljósanna jól!
Vermandi gjörvallan geiminn,
græðandi, fræðandi heiminn,
sálnanna sól!

Drottinn, sem jól,
árin og aldirnar gefur,
alt þinni föðurhönd vefur,
stjórnar á stól.

Lát þú hver jól
lifandi lofsöng þér færa,
lýsa og græða og næra
barnanna ból.

Höldum nú jól,
herrans í heilaga nafni,
hefjum upp merkið í stafni.
Gleðileg jól!

---

# ALVELDIÐ.

Ó, mikli guð, sem lætur ljós
og líf á jörðu streyma,
þér flytur alt, sem hrærist hrós
um heimsins víða geima,
þinn styrkur verndar stórt og smátt,
þín stjórn er náð og friður,
þú lítur jafnt á lágt sem hátt
frá líknarstóli niður.

Já, hvar sem reikar hugur manns
um himinn, jörð og flæði,
þar skína verkin skaparans
með skraut og lífsins gæði;
þú alsvaldandi herra hár,
sem hvers eins ræður dögum,
hið veika, styrka, öld sem ár
fer eftir þínum lögum.

Þú sendir bæði blítt og strítt,
ei barni neinu gleymir,
þín náð er eilíf, veldi vítt,
sem veröld alla geymir;
þú hrífur vini vinum frá
svo viðkvæm tárin falla,
en aftur ljóssins landi á
þú leiðir saman alla.

## INNIHALD:

### MINNI:


| | Bls. |
|---|---|
| Ávarp til Íslendinga í Argyle | 12 |
| Canada | 32 |
| Flutt í heimboði á Garðar | 17 |
| Kveðja Vestur-Ísl. til Austur-Ísl. | 24 |
| Minni Íslands | 3 |
| ,, Vestur-Íslendinga | 13 |
| ,, Íslands | 14 |
| ,, Íslands | 18 |
| ,, Vesturheims | 20 |
| ,, Gimli-bæjar | 22 |
| ,, Vesturheims | 23 |
| ,, Canada | 26 |
| ,, Hólaskóla | 28 |
| ,, Vestur-Íslendinga | 31 |
| Skagafjörður | 4 |
| Vínland | 10 |
| Vesturheimur | 29 |
| Þorrablót | 15 |


### ÝMISLEG KVÆÐI:


| | |
|---|---|
| Á Þingvelli 1907 | 41 |
| Ávarp til verkamanna | 43 |
| Á leið austur um haf | 73 |
| Á heimleið | 83 |
| Á leið inn Eyrarsund | 84 |
| Á Stigabergi 1907 | 74 |
| Brot úr ljóðabréfi | 56 |
| Bakkus | 89 |
| Drangey á Skagafirði | 42 |
| Drengurinn minn í skólagarðinum | 81 |
| Danski stúdentinn | 91 |
| Eg átti eik í runni | 60 |
| Eg gleymi þér aldrei | 71 |

Flutt á kvenfélagssamkomu .................... 53
Fram á völlinn .................... 79
Fríða stúlkan .................... 87
Flutt í skilnaðarsamkvæmi í Winnipeg 1907 .... 88
Hér skijla leiðir .................... 39
Haust .................... 40
Haust .................... 51
Heimkoman .................... 58
Haustvísur .................... 82
Hann leitar .................... 93
Hér ríkir gleði .................... 95
Í póesí-bók ungrar stúlku .................... 87
I Höfn .................... 90
Ísland .................... 63
Kvöld .................... 70
Kvenfélag Tjaldbúðarsafnaðar .................... 76
Landnám Vestur-Ísl. .................... 48
Landsýn .................... 72
Móðurástin .................... 64
Morgun .................... 70
Mansöngur .................... 77
Nýja árið .................... 65
Nýja árið .................... 68
Skilnaðarkveðja .................... 37
Stökur .................... 84
Skrifað í póesí-bók barns .................... 85
Staka .................... 87
Til kunningja míns .................... 36
Tómlegt er á tímans sundi .................... 38
Tóba ljóð .................... 44
Til Ásmundar Gestssonar .................... 53
Til Fröken M. Bjarnason .................... 53
Til Vesturfara .................... 82
Til frænku minnar .................... 85
Til Marju Rögnvaldsdóttir .................... 85
Til G. Halldórsdóttir .................... 86
Til Íslands 2. Ágúst 1905 .................... 91

Til móður minnar .... 94
Vorið kallar .... 35
Vetur .... 40
Vor .... 46
Vorvísur .... 50
Vorvísa .... 52
Vort líf er sem blómin .... 55
Vor .... 58
Vor .... 62
Valdsmaðurinn .... 67
Það blóm mér vísar leið .... 67
Þú mættir mér á vegi .... 86

BRÚÐKAUPS-KVÆÐI:

Brúðkaupsvísur .... 96
Brúðhjónakvæði .... 97
G. Hansson og L. Bergmann .... 98
P. Dalmann og E. Markúsdóttir .... 99

ERFILJÓÐ:

Bjarni Jónsson .... 114
Eftir unga stúlku .... 105
Eftir barn .... 119
Gísli Þorláksson .... 104
Hafliði Guðmundsson .... 108
Jón Þorvaldsson .... 122
Jakob Johnson .... 115
Kristján Danakonungur .... 111
Kristján H. Vopnford .... 107
Ólafur Markússon .... 101
Páll Kr. Björnsson .... 110
Steinunn Jónsdóttir .... 117
Vinagröfin .... 120
Þórunn Sigurðardóttir .... 102
Þorvaldur Þorvaldsson .... 118

---

Alveldið .... 125
Gleðileg jól .... 123